Þrjátíu

# Fædingar-sálmar,

út af

nádarríkri holdtekju og fædingu
vors drottins Jesú Kristi,

med

lærdómsfullri textans útskýringu,

gjørdir af

séra Gunnlaugi Snorrasyni.



Reykjavík, 1855.
Prentadir í prentsmidju Islands, og á kostnad
hennar, hjá E. Þórdarsyni.

# APPROBATIO.

Sé nokkur med gódum huga, hann sýngi, segir Jakob, (kap. 5., v. 13.). Þetta hafa guds menn gjørt á øndverdum øldum, þá drottinn hefur sýnt þeim sérdeilis frelsanir og eptirlæti, sem Móses (2. Mós. b. 15. v. 1. til 21. Devt. 32. v. 1., 2., 3.), Debóra og Barak (Dóm. b. 5. v. 1.—2.), Davíd, (2. Sam. b. 22. v. 1., 2., 3., 4.). Svo saung Esajas um guds víngard (Esaj. 5. v. 2.). Eins á Nýja Testamentisins tímum, Maria (Lúk. 1. v. 46. etc.), Zacharias (Lúk. 1. v. 68. etc.). Og svo hefur þad haldist og helzt vid, lof sé gudi, á vorum tídum í kristilegri kirkju, svo vel hér í landi, sem annarstadar, ad guds menn hafa gjørt adskiljanlega ágæta sálma, þeim ódaudlega gudi til dýrdar, og hans kristni til uppbyggingar; á medal hverra ad hafa helzt verid og eru af-haldnir sálmar sál. séra Hallgríms Péturssonar, um pínu og dauda drottins vors Jesú Kristi, og sál. mag. Steins Jónssonar, biskups hér ad Hólum, um upprisu og dýrdlegan sigur, vors endurlausnara. Nú ad feta eptir þeim, og annara þeim líkra guds barna ferli, hefur heidarlegur og vel-lærdur kennimann, séra Gunnlaugur Snorrason, tekid sér fyrir hendur ad gjøra

og hingad senda þessa sálma, af fædingu vors sálar brúdguma Jesú Kristi, svo sem vér høfum þá ei fyr gjørda á þann hátt, sem hinir hátt-upplýstu guds menn hafa brúkad: Ekki i þeirri meiningu, ad hann þeinki þar i vid þá ad jafnast, heldur ad hann sýni þad ødrum guds børnum, ad vekja þau upp til hins sama, ad þeirra andi gledjist i gudi þeirra heilsugjafara, af fæding og uppvexti vors drottins Jesú Kristi; og ad med þeim mætti sem fyrst, drottni af munni smábarna og brjóstmylkinga maktar lofgjørd til-leggjast (Sálm. 8. v. 3.), ásamt þeirra fullordnu. Vil eg þvi af hjarta óska, ad þeir af øllum mættu sýngjast, ei einasta af anda, heldur og skilningi (1. Kor. 14. v. 14.), svo hver tali vid annan, um fæding þess blessada kvinnunnar sædis, med sálmum, lofsaungum og andlegum kvædum, sýngjandi og spilandi drottni i þeirra hjørtum (Efes. 5. v. 19. Kól. 3. v. 16.).

Hólum d. 1. aprilis 1747.

**Halldór Brynjólfsson,**
biskup Hólastiptis.

---

# DEDICATIO.

Minnar andlegrar módur,

**Kristninnar,**

ástkærum börnum hér á landi, systkinum minum og samerfingjum i nádinni, óska eg heilla og blessunar af okkar nýfædda bródur, barninu Jesú Kristó!

---

Eg er viss um, ad eingu af ykkur muni óvirding þykja, ad játa hid sama og Páll postuli vidurkenndi fyrir börnum safnadarins i Korintuborg, segjandi (1. Kor. 13.): Þá eg var barn, taladi eg sem barn, og eg var skynugur sem barn, og eg hugsadi sem barn, en þá eg gjördist madur, lagdi eg af hvad bernsklegt var; heldur munud þid sama sinnis vera og David, er bad, segjandi (Sálm. 25.): Drottinn! minnstu ekki á syndir mins úngdóms; þvi eg veit þid hafid af heyrninni numid, hvilik bernska rikti i hjörtum okkar forfedra, heidingjanna,

þegar þeir ráfudu í myrkri guds þekkingarleysis, fram eptir øllum øldum, og þjónudu þeim, sem af náttúrunni voru eingir gudir (Gal. 4.). Þeir skynjudu sem børn, tøludu sem børn, og hugsudu sem børn. En ódaudlegar þakkir séu honum, sem er fadir yfir allt hvad børn kallast á himni og jørdu, hver í tímans uppfyllíngu útsendi sinn son, gjørdan af kvinnunni, løgmálinu undirorpinn, upp á þad hann frelsadi þá, sem undir løgmálinu voru, svo ad vér medtækjum sonar-leifdina, svo þar er nú eínginn þræll framar, heldur børn ein, erfíngjar guds, og samarfar Kristi (Gal. 4.), svo margir sem hann med trúnni medtaka, hverjum fadir ljósanna hefur makt gefid guds børnum ad verda (Jóh. 1.). En svo sem þad, ad eínginn er sá fulltída, ad hann af alvøru æski sér, ad komast aptur til sinnar fyrri barnæsku, svo væri þess og ei heldur óskandi vorum sálum, ad þær hverfi aptur til síns fyrra þekkíngarleysis á gudi, og bernsku fáfrædisins, í hverju vér áfram geingum á fyrri tímunum, þegar vér vorum myrkur og án

ljóss í heiminum, allt þar til það skæra ljós Evangelii tók til að skína í vorri kirkju, í hverju guðs náðarorði og Evangelió oss, sem af náttúrunni vorum reiðinnar börn, var sá dýrmæti fögnuður boðaður, að eitt barn væri oss fætt, og einn sonur gefinn, sá eingetni sonurinn, sem er ljómi síns föður, og ímynd hans guðdómlegrar veru, hver orðinn er hluttakandi holds og blóðs, líka sem smábörn, svo vér mættum hluttakandi verða barna arfleifðarinnar, sem oss fyrirhuguð var í Kristó, og vér, sem minni vorum en börn í skynseminni, skyldum komast til andlegrar fullkomnunar, og fullkomnir menn verða, eptir fullkomnum mæli Kristi aldurs. Og þar sem að faðir miskunsemdanna hefur ekki einasta gefið oss sinn frumgetna son Jesúm, heldur og með honum alla góða og fullkomna gjöf, og eg er fulltrúa um, að sérhvert ykkar, minna andlegra systkina, muni fagnandi og með þakklátu geði taka vilja á móti þessum ykkar nýfædda bróður, og upphefja ykkar andlega barnaraust, svo að ykkar þögn þurfi ei að gefa

steinunum orsøk til ad hrópa, sérdeilis þar mín og ykkar andleg módir, guds almennileg kristni, er nú á þessum fædingartíma vors endurlausnara allareidu út geingin á móti sínum brúdguma med kæti og fagnadarsaung, þá blygdast eg ekki vid ad bera fram fyrir ykkur med þessu ný-uppbyrjada ári, svo sem eina velmeinta nýársgjøf, þenna minn audmjúkan barnasaung og andleg vøggukvædi, í þrjátíu sálmvísum, hljódandi um holdgan og fædingu vors nýfædda bródur Jesú Kristi, med hverjum þid villa megid því blessada barninu í ykkar eigin hjørtum, svo ad hann, sem af munni barna og brjóstmylkinga hefur sér lofgjørdina tilreitt, megi af ykkur, og í ykkur, hans samerfingjum fyrir trúna, vegsamadur verda í anda og sannleika. Þiggid því af mér, ykkar minnsta bródur, þenna litla vinaskeink, hvers mergur og innihald, eg heils hugar óska, ad verda mætti barninu Jesú Kristó einn sætleiks ilmur, uppstígandi med ykkar andlegri barnaraust í hædirnar, en ykkar eigin sálum ilmur lífsins til lífsins, svo þid, ad

farsællega endudu þessu nú uppbyrjudu nýári, sem sérhverjum ødrum, mættud med hinum nýfædda Jesú þángad innleidd verda, sem þid halda megid eitt nýtt gledinnar ár ad eilífu.

Þess óskar ykkur øllum,
ykkar allra elskandi bródir og
fyrirbidjari til guds.

Drápuhlíd, nýársdags-aptan, 1744.

Gunnlaugur Snorrason,
Kapellan til Helgafells.

---

## Til lesarans.

Eg ætti ekki ad undan fella, vinsamlegi lesari! ad þakka fødur ljósanna af hjarta fyrir þad, hversu hann hefur allt frá því fyrsta, ad kristni guds stadfestist hér á landi, látid raust sins Evangelii útbreidast medal safnadanna, fyrir kostgæfni og árvekni þeirra, sem hann kjørid hefur til ad vera limi og þénara sinnar kristilegrar kirkju, þeir ed ekki einasta hafa med opinberum kenningum i søfnudunum, og sundurlausum rædum, heldur og einnig þeir, sem þar til hafa af drottni gáfur þegid, med sálmum og lofsaungum, vidfrægt guds nádar velgjørninga vid syndugt mannkyn, einna helzt þá, sem hann hefur i og med forþénustu sins sonar, Jesú Kristi, veitt heiminum til endurlausnar; hver ekki einasta hefur manndóm á sig tekid, ordinn monnum likur, og ad hegdan fundinn sem madur, ad syndinni frátekinni, heldur hefur og einnig i því sama mannlegu holdi lidid pinu og dauda fyrir synduga

menn, og i því sama mannlegu holdi með dýrmætum sigri frá dauðum upprisið, og sett sig i því sama á hægra veg guði i dýrðinni, til að biðja óaflátanlega fyrir oss. Og að eg ekki mæði sjálfan mig i því, sem mér er ómögulegt: eg meina að upptelja alla þá, sem kveðið hafa andlega sálma og lofkvæði hjá oss, þá vil eg þó til nefna þann eina, sem flestum hér á landi hefur fram tekið i sinni andlegri skáldskapargáfu, þann sáluga guðs mann, séra Hallgrím Pétursson, hver af guðs anda uppvaktur tók sér fyrir, að kveða út af því dýrmæta efni, pínu og dauða vors drottins Jesú Kristi, hvert hans ágætt og guði þakknæmilegt verk varir i heiðri, og vara mun meðan land vort byggist. Þessu næst vil eg og telja veleðla og háæruverðugan biskup Hólastiptis, mag. Stein Jónsson, sællar minningar, hver eptir sömu aðferð hefur sér fyrir hendur tekið, að kveða út af dýrmætum upprisu=sigri vors drottins Jesú Kristi, hvert hans loflegt sálmaverk nú allareiðu er víðfrægt orðið meðal vorra safnaða.

Og þar sem eg má reikna mig barn hjá þessum sælu guds mønnum, svo vel ad aldrinum sem lærdóminum, þá hefur mér þad þó ekki vidurkvæmilegt þókt, ad upphefja ekki mína veika barnaraust ásamt þeim, sérdeilis þar eg þekki, ad gud hafi mig ekki aldeilis hlutlausan gjørt af þeirri gáfu, og muni þar fyrir ávaxtar krefja af því, sem øllu ødru, er hann mér lánad hefur; þess vegna hef eg, vinsamlegi lesari! tekid mér fyrir, ad kveda út af nádarríkri holdgan og fædingu drottins vors Jesú Kristi, eptir þeirri sømu methodo og hinir fyrri hafa gjørt (jafnvel þótt eg þekki vanmátt minn í því, ad rekja þeirra fótspor, sem vera skyldi), og þetta í þrjátíu sálmum, eptir áratølu vors endurlausnara, þegar hann byrjadi sitt prédikunar embætti. Óska því af alhuga, ad þetta mitt litla verk megi svo ávaxtast í allra guds barna hjørtum, ad þad yrdi gudi til dýrdar, og þeirra sálum til eilífrar velferdar. Kved þig svo, vinsamlegi lesari! øllum heilla óskum í Jesú nafni.

G. Snorrason.

# 1. Sálmur.

## Um skattskriptina.

Lagid: Allfagurt ljós oss birtist brátt.

Upp liptu, sál min! eina stund, augum trú-
ar vid Jesú fund, láttu blessadan barn-
dóm hans, bernsku fræda þins innra manns.

2. Minu samfara máli sé, mannvits
kraptar og skynseme; andleg nádar uppsprett-
an þin, ávaxti, drottinn! túngu min.

3. Audmjúklega i anda nú, eg vil hug-
leida, minn Jesú! fædingu þina og fram-
ferdid; fáfrædi minu veittu lid!

4. O! hvad skyldi eg aumur hér, ihugad
geta svo sem ber, almættis-verkin undar-
lig? ófæran til þess reikna' eg mig.

5. Hversu kann dýrdar dásemd þá, daud-
legur madur skynjad fá, sem yfirgeingur
oflitinn, eingla og manna skilninginn?

6. Hálfverk er allt af holdi gert, heimsku
blandad og einkis vert, andans fullkomnun
er til sanns, ógripanleg i þánka manns.

7. Vid skulum, sál min! sinni' og hug, svala med krapti' og nýum dug, vid forþénustu fylling þá, sem fæding Jesú verka má.

8. Ungdóms vanmáttugt edli var, allra manna, og dugdi' ei par; í Jesú úngdóms edli þó, eilíf guddómsins fylling bjó.

9. Hvort geta þánkar hjarta=ranns, hærra flogid eins syndugs manns, en ad grunda med íhugun, alvísa drottins rádstøfun?

10. Eingin gáfa má ædri fást, ad því skyldir, min sála! dázt, heldur en einn ad eignast þann, sem alla hluti veita kann.

11. Læt eg því, Jesú! málid mitt, minnast framar á nafnid þitt: áformid bædi' og ordin min, adstodi blessud gæzkan þin!

**Textinn.**

12. Ut gékk þad bod frá Augústó, allur heimur um lønd og sjó, skyldi láta skattskrifa sig; skikkun þessi var tignarlig.

13. Þetta svo feingi framgáng þar, ferdadist skjótt, sem búinn var, sérhver til borgar sinnar þá, settu løgmáli hlýdni tjá.

14. Allt til þess Schilo auglýstist, átti hjá Júdum (það er víst), veldis-sprotinn að vera kyrr, vitnaði Jakob um það fyrr.

15. Kom nú uppfylling tímans téð, tók því að nálgast hjálpræðeð, Gyðinga lýður greiða vann, gjald og skatt undir keisarann.

16. Í Adams falli urðum vér, eilífum dauða skattgildir, lögmálið þessu lýsa vann, lagði bölvan á syndarann.

17. Allur heimurinn átti því, aldrei að verða skulda frí, nema ef einhver gæti greitt, gjaldið dauðans og bölvan eytt.

18. Undirgekkst Jesús okið það, öllum heiminum vægðar bað, hlýðninnar skyldur guði galt, gaf sig til þess að borga allt.

19. Líttu, mín sál! þá sætu náð, sjálfkrafa uppþeinkt drottins ráð, hann sem aldrei guðs boðorð braut, bölvan upp á sig taka hlaut.

20. Lítilækkaði sjálfan sig, sonur guðs Jesús fyrir mig, náttúru-hroka næman minn, nógu borgaði' hans auðmýktin.

21. Fljótlega Jósep ferðast réð, festarkvinnu þúngaðri með, Betlehem,

Davíds borgar til, bodum keisarans gjørdu skil.

22. Hlýdni þakknæmast offur er, athuga, sál min! byrjar þér, skipun og vilja skaparans, skikka þér eptir bodum hans.

23. Gættu og þess ad gud er sá, gudi stiptadi jørdu á, eru þad drottins umbods-menn, eiga ad skipa réttinden.

24. Audmjúklega þeim hlýd og heyr, halt þig vid þad sem bjóda þeir, valdid tignarlegt gud þeim gaf, gódum launum ei drag þú af.

25. Sá sem ad yfirvaldi vill, veita óþokk og gjøldin ill, bakspyrnir móti broddunum, burt skúfar drottins setningum.

26. Ef þú hlýdninni offra vilt, yfirbodnum, sem vel er skylt, þægasta gudi gjald er þad, med gódu verdur umbunad.

27. Vøkumenn þessir velferd lands, vaka yfir og sálu manns, vakandi þeirra vilja ger, vaka lát drottins ótta' i þér.

28. Ekki er gjof-þótt eigir þú, yfirmønnum ad tolla nú, þakklátan vilja greid og gjalt, gudi fyrir hans lánid allt.

29. Eg vil, minn Jesú! holla hér, hlýdni og audmýkt gjalda þér, virztu ad láta viljann minn, verda i gudi fullkominn! Amen!

## 2. Sálmur.

### Um fædíngu Kristí og reifana.

Lagid: Mitt hjarta hvar til hryggist þú.

Medan dvaldist í Davíds stad, dýrust María, svo bar ad, frumgetinn fæddi svein, reifum vafdi hýr og hrein: hermir þannig ritningar grein.

2. Hugleid þú, sál min! herrans rád, hér um var laungu fyrirspád, Betlehem sveinninn sá, koma skyldi frægur frá, sem fólki drottins stjórnadi hjá.

3. Aldrei hefur frá upphasi, afbrugdid drottinn trúfesti, sannordur altid er, verdi því hans vilji' á mér, vonin blessun færir med sér.

4. Timi Mariu tédur var, timi mannkynsins frelsunar, ásettur eilifd frá, þú skalt, sál min! þar ad gá, þér nam drottinn timann ad ljá.

5. Attu ad brúka eins og sé, ávaxtargóz

og leigufé, sem herrann heimtar af þér, leingja og stytta ekki er, eptirlátid manninum hér.

6. Er þad drottins en ekki þitt, eignarvaldid hann brúkar sitt, vertu ei varbúinn, vitjunartíma þekktu þinn, þakka drottni velgjørning sinn.

7. Peinktu og líka um þad eitt, ekki er neinum manni veitt, vors guds ad vita tíd, í audmýkt trúar árla og síd, eptir henni þolgódur bíd.

8. Trúfasti gud þá tími' er þinn, tímann lát einnig vera minn, ad taka miskun mót, og unna þér af elskurót, audsýnandi þakklætis hót.

9. Frelsarinn! láttu fæding þín, fæda daglega' í hjarta mín, idrunar ávoxt þann, ad endurfædist innri mann, á ordi drottins forsorgist hann.

10. Frumburd syndanna Satan fyrst, sjálfur fæddi þá metnadist, og skaparans stikkun braut, Adam bølvan af því hlaut, andar-bann og kvalanna þraut.

11. Ertu frumburdur ordinn nú, eilífrar

nádar, minn Jesú! heilagri holdgan í, Adam blessun beid af því, bættist rád hans aptur á ný.

12. Þú sem réttlátur ríkir einn, reifum klæddist sem úngur sveinn, þess vegna eg þeinki nú, um audmýkt þína, ó Jesú! eykur gledi hjartanu sú.

13. O! hvad margt synda afkvæmid, alid hef eg og leikid vid, reifad í brjósti bezt, holdlega þánka þar vid fest, þad var sálar fordjørfun verst.

14. En þinn blessadi úngdómur, alleina klár og heilagur, míns úngdóms brek og brest, afmádi hreint svo ekki sést, er þad sálar farsældin mest.

15. **Lífs ávøxt þenna lifanda, lagdi í jøtu María, mjúkan gaf mjólkur smekk, af því hún á ædra bekk, ekkert rúm hjá gestunum fékk.**

16. Hvar var þá, Jesú! heidur þinn? hvar var þín eilíf kóngs-tignin, dulin um myrkra mund, ad þú fékkst ei eina stund, annad rúm né værari blund?

17. Víst hafdir þú øll ríkdóms rád, ríki-

andi yfir himni' og láð, allt frá eilifri tíð, en hjá þínum eiginn lýð, ekki gafst þér viðtakan blíð.

18. Þótt að framandi fæðist þú, forsmán og læging býðst þér nú, virðingar missa mátt, í slíkum vafinn fyrstu nátt, hjá fénaðinum svefn-værðir átt.

19. Framandi kom eg hingað hér, heimurinn bústað veitti mér, fagran, en fallvaltan, aptur skilja á við hann, eins og snauður vegferða-mann.

20. Veit eg lausnari lífir minn, leiðir hann mig um síðir inn, í sannhelgra samfélag, hvar eg eilífan hvíldardag, hafa mun og gladværðar dag.

21. Hér þegar veröld hrekkjalig, herbergja vill ei leingur mig, jeg bið þig, Jesú kær! leiði mig þín líknin skær, loks í dýrðar tjaldbúðir þær! Amen!

## 3. Sálmur.

### Um boðskap eingilsins til fjárhirðaranna.

Lagið: Heiðrum vér guð af hug og sál.

Guðspjallamann þess getur vel, góðir

vøktu um náttarþel, hirdarar sama héradi í, hjørdina geymdu úti frí, ljómandi eingill lét sig sjá, leiptran guds skein í kríngum þá, ad þeim réd miklum ótta slá.

2. Eingillinn mæla vid þá vann: verid ei hræddir! sagdi hann, ydur til eyrna' eg blídan ber, bodskap sem øllu fólki sker, endurlausnarinn er í dag, ydur fæddur med gledihag, Davídsborg fékk þad lukku-lag.

3. Má og vera til merkis þad, munud þér finna' í greindum stad, reifunum vafid barnid bezt, blundinn hefur í stalli fest. Hugleida, sál min! byrjar bert, bodskapar þess njótandi ert, þar fyrir jafnan þakklát vert.

4. Eins og vatnsstrauma uppsprettan, øndu daudþyrstri svala kann, gledi-bodskapur fjarlægd frá, sáráda sál eins hugga má; í Jesú fæding ein hér séft, uppsprottin svala lyndin bezt, auman syndara hún fær hressst.

5. Undir ránglætis oki hlaut, allt mannkyn lida sára þraut, óbærileg sú ánaud var,

orkadi straffs og hegningar, ørmagnast sálin af því réd, ángrud samvizka fylgdi med, bølvan løgmálsins grætti ged.

6. En Jesús sinni elsku af, opnadi drottins nádarhaf, fram til alls mannkyns slutu þar, fossarnir endurnæringar, sálunni er því svølun sked, sefadist hjartans ángrid med, blessunin allra gladdi ged.

7. Þegar samvizkan mædist min, og minning glæpanna eykur pin, Jesú! þin nádar ljúfust lynd, lifgi mig auma skepnu-kind, sál mina lát þann føgnud fá, sem færdi eingillinn jørdu á, gledinnar næring gefst mér þá.

8. Hér næst gjøri' eg ad þeinkja' um þar, þegar ad Adam fallinn var, med ángist stórri út á braut, af aldingardinum rekast hlaut, ei mátti lifsins eta' af tré, einglavardhald þad bannade, sem veginn þángad vaktade.

9. Aptur á móti opnast hér, inngángur beinn til lifsins mér, eingill þann bodskap bar til sanns, braut sé lidug til himnaranns, hirdurum veginn visar heim, vid skulum, sál min! fylgja þeim, burt frá veraldar synda seim.

10. Ertu, Jesú! það edla tré, áverti lífsins færande, dávænt sprottið af Davíðs rót, dýrmæt sálnanna heilsubót, láttu því blessuð blóðin þín, breiðast út yfir sárin mín, andar meinsemdin öll þá dvín.

11. Nær sem að sterkur stofnast hér, stormur guðlegrar reiði mér, í þínum skugga skaðlaus þá, skjóls og hælis eg leita má, vakna og sofna vil eg þar, verður ei neitt til skelfingar, sálina ekki sakar par.

12. Ef að mig sturlar ángurs pín, upp vil eg standa' og leita þín, andleg hug-svölun eykst mér þá, í orðinu nær þig finna má, drottins miskunar brauð-hús ber, blessaða lífsins fæðu mér, þetta mín sálar auðlegð er.

13. Víst er ei nóg, þó vaki' á jörð, ve-salla drottins barnahjörð, utan þú hafir á þeim nú, augu vakandi, minn Jesú! sálin vöku-nótt haldi hrein, heiðrandi þig á alla grein, það sé mín hjartans unun ein! Amen!

# 4. Sálmur.

## Um lofsaung einglanna.

Lagid: O Jesú! elsku hreinn.

Himneskir herskarar, hér eptir, svo til bar, einglinum ásamt þar, upp hófu raddirnar:

2. Dýrd gudi títt í té, tjáist í hæd-inne, fridur á foldu sé, fólki gódur vilje!

3. Þakkláta sýndi sig, sveit eingla tignarlig, uppvekja á þad mig, athuga, sál min! þig.

4. Vera ei minni mátt, mæta dýrd gudi átt, offra á allan hátt, í anda dag sem nátt.

5. Jørd, sjór og himna her, heims all-ar tegunder, dýrd guds og hátign hér, herma daglega þér.

6. Aldrei svo aumur mann, augunum renna kann, ad megi' ei merkja hann, mátt drottins frábæran.

7. Ord guds ef athugar, med augum trúarinnar, séd getur sálin þar, sætleik hans miskunar.

8. Dásamleg dýrdin þér, drottinn all-eina ber, en blygdun aumum mér, í øllu tilheyrer.

9. Eg sæ og einnig séd, ad eingla sveit boda réd, frid á jørd, gladvært ged, og góda velþóknan med.

10. Adam frid af sér braut, óvingan guds þvi hlaut, en drottins ástarskaut, aptur linadi þraut.

11. Eilifan frid oss fann, frelsadi syndarann, soninn þá senda vann, saklausan gud og mann.

12. Allt er þvi bølid bætt, vid blidan gud mannkyn sætt, hans fridar=merkid mætt, mein fær i burtu rætt.

13. Ofridur eingihn má, elskunni drottins frá, skilja né þvinga þá, er þenna frid treysta á.

14. Allt er oss veitt i vil, vantar ei neitt þar til, Jesú! þinn ástar=yl, aldrei fyrir oss dyl.

15. Vér høfum feingid frid, fridar-høfdingjann vid, synda-bót, sálargrid, og sælunnar athvarfid.

16. Oss hefur afrekad, eilifan gridastad, guds nádar=hel er þad, þess trúin nýtur ad.

17. Nádarstóll ordinn er, eingetinn son guds hér, hans skuggi hlífir mér, hvad sem til meina ber.

18. Rati eg ángist í, ótraudur þángad flý; Jesú! þín nád á ný, nemur burt sorgar=ský.

19. Og þegar órólig, ángrar samvizkan mig, trúar-hønd heldur sig, herra minn! fast vid þig.

20. Andlegan frid eg finn, fridstillist hugurinn, hjarta, sálu og sinn, sedur guds miskunin.

21. Þegar guds grimmdar-hrid, geysadi hardla strid, med flódinu fordum tíd, og fargadi øllum lýd,

22. Til fridar fékkst ei par, fannst merki reidinnar; vatnsflódid þegar þar, til þurrdar geingid var,

23. Sáttmáls-teikn setti þá, sjálfur gud himnum á, blída réd blessan tjá, sem bregdast aldrei má.

24. Þegar gud vildi vid, vora sál binda frid, burt frá hans hægri hlid, hjálprád er út geingid.

25. Sáttmálann samdi vel, son guds Emanúel, hans blessad blídu-þel, bætir öll rauna-jel.

26. Gódvilja þennan þinn, þakka eg, Jesú minn! vertu í sérhvert sinn, sálunni velkominn! Amen!

## 5. Sálmur.

Um reisu fjárhirdaranna til Betlehem.

Lagid: Ef gud er oss ei sjálfur hjá.

Þegar ad eingla fylking fríd, fór til himins af grundu, hjardar-sveinar á sömu tíd, sögdu med gladri lundu: Til Betlehem skulum gánga greitt, og gaumgæfa drottins verkid eitt, ferd-búnir strax ad stundu.

2. Sem þeir komu í sagdan stad, svo vill ritningin greina, fundu allt eins og eingill kvad, úngbarn og meyu hreina; herrans dásemdum hermdu frá; hverjir sem fréttu sögu þá, tilburd þann undrast eina.

3. Viljir þú, sál mín! anda í, endurlausnarann skoda, trúarhöndin fyrst þreifi' á

því, þér sem drottins orð boða, gaumgæfni betri' en offur er, efasemd taktu burt frá þér, sízt kann þig sú að stoða.

4. Ef að vantrúin finnur fyrst, fylgsni í hjarta ranni, hlotnast þér ekki að horfa' á Krist, holdið trúi' eg það banni, meðan í syndum situr kyr, seint munu opnast náðardyr, ángráðum innra manni.

5. Þegar Jesúm ei fundið fær, fyrir sér trúin veika, grunda betur og gakktu nær, guðs orði' og hans sannleika, í því ljósi þú líta mátt, lausnara þinn og skoða brátt, svo muntu síður skeika.

6. Döpur er sálar sjónin mín, syndanna hulin glýjum, utan, minn Jesú! orðin þín, auðgi mig smyrslum nýjum, ryð þeim mín trúar-augu á, elskan þín góð mér hrindi frá, vantrúar villu-skýjum.

7. Birtu Israels fólki fékk, fagur eldstólpi' um nætur, eitt ský á daginn undan gekk, á því höfðu þeir gætur, óhulta leið þeim visa vann, í villi-mörku tíma þann, drottinn miskunar-mætur.

8. Vond eptirdæmi og illsku-ský, undan

guds børnum gánga, afvega leidast opt af því, um eydimørku lánga, syndirnar villa sjónir þeim, sinna ofmjøg um þennan heim, sem vísar á veginn ránga.

9. Eld-stólpinn þinna orda mér, ó Jesú! lýsi í heimi, þegar eg villtur velkist hér, svo veginum aldrei gleymi, edur á hálum hrekkja-stig, sem holdid leggur fyrir mig, í þvermódsku þoku sveimi.

10. Þitt ljúfa ord er lampi víst, og ljós á vegi mínum, þegar mér birtan þessi býdst, med þýdum geislum sínum, uppljómast sál og sinnid kalt, syndanna myrkur hverfur allt, af blessudum bjartleik þínum.

**11. Undradist fólkid fregnir þær, sem fjárhirdarar báru, guds ord María góð og skær, geymdi í hjarta kláru.** Nær sem eg þennan fjársjód finn, fagnar og leysist hugur minn, af eymdanna ángri sáru.

12. Margt þó undarlegt, sál mín! sé, fyrir sjónum trúarinnar, dásemdir guds ei drag í hlé, med dul fávizku þinnar, holdlegan skilning heldur gef, hlýdninni fánginn utan ef, drottinn krefst dýrdar sinnar.

13. Sjá til þú hafir í hjarta fest, hjálpræðis orðið blíða, láttu þér vera í minni mest, miskunsemd drottins þýða, réttlætis sólin sannarlig, syndugra líking klæddi sig, til endur=lausnar lýða.

14. Gef þú, Jesú! í geðið mitt, gæzkunnar ljósið bjarta. O! að eg feingi orðið þitt, innrætt í mínu hjarta, svo að eg megi um eilíf ár, af öllum syndum hreinn og klár, í lífsins ljóma skarta! Amen!

## 6. Sálmur.

### Um heimreisu hirðaranna og þeirra þakklæti.

Lagið: Kom andi heilagi.

Hirðarar héldu brátt, heim með fögnuði, súngu og hermdu hátt, hæzta lof guði,

2. Sem gæzku sína þá, sjá lét og heyra. Hér, sál mín! hlýð uppá, með hugskotseyra.

3. Feðrunum forðum tíð, fyrirheit skeðu, sem nú fagnaðar frið, fram koma réðu.

4. Lángadi leingi þjóð, að lifa nædi, tíðindin gleði-góð, og guðs hjálpræði.
5. Eins kóngar og spámenn, ætludu mundu, með augum sínum senn, sjá þá nýlundu.
6. En feingu ekki þó, að sjá Krists daginn, af því guð undan dró, þann auðnu-haginn.
7. Dýrðar ráð drottins það, dult var höfðingjum, en nú opinberað, aumum smælingjum.
8. Allmjög Abraham víst, eptirlángadi, að sjá mætti son guðs Krist, og sá með fagnaði.
9. Í trúnni vænta vann, vissu guðs orða, við það traust vildi hann, vonina skorða.
10. Hógværð og þelið þýtt, þóknast guðs hjarta, ljúflætis bragðið blítt, bezt kann að skarta.
11. En dramblátt hjarta hann, hatar á jörðu, og stundum straffa vann, með stríði hörðu.
12. Af því að útvalið, aumingjann hefur, og hefðar hásætið, hógværum gefur.
13. Í læging lausnarinn, lét sig hér finna, ei vill hans auðmýktin, oflæti sinna.

14. Raunar nú ræ ttist fród, ritning spá-dóma, ad fátækum gefin gód, gudspjøllin hljóma.

15. Hirdarar hér vid þvi, helzt kannast nádu, trúadir audmýkt i, ad sliku gádu.

16. Gladværir greiddu' á mót, gudi þakk-læti, af innra manns elskurót, og andans kæti.

17. Guds húsi geingin frá, gæt þess, min sála! til ordsins þeinktu þá, og þess leyndar-mála.

18. Hvad sem þú heyrdir þar, hjarta þitt geymi, leita guds lofdýrdar, lastvør i heimi.

19. Utbýttu einnig þá, ordum guds sønnum, hverjum sem heyra má, hjúum og grønnum.

20. Sem annad edla tré, i blóma standi, andlega ávexti, af sér fædandi.

21. Pund guds ei máttu, mann! i moldu grafa, af þvi vill allan hann, ábatann hafa.

22. Herrans ord heitir þvi, hveiti-sád rétta, sem guds barna brjósti i, bezt á ad spretta.

23. Og færa ávøxt þann, sem aldrei rotni, þinni sál þarflegan, þakknæman drottni.

24. Uppskera þá munt þú, það dýrðarlífið, sem endar eymdir nú, og rauna kífið.

25. Ljótum heim leiddur frá, til ljóssins vista, sem guði sjálfum hjá, síðar munt gista.

26. O guð! það unntu mér, um eilífð hljóta, og meðan mæðist hér, miskunar njóta! Amen!

## 7. Sálmur.

### Um umskurn Kristí.

Lagið: Túnga mín af hjarta hljóði.

Átta døgum eptir þetta, umskurn líða skyldi sveinn, og sitt nafnið ødlast rétta, eptir því sem mælti einn, eingill forðum, í þeim orðum, er til meyar boðaði hreinn.

2. Hans var Jesús nafnið nýta, nefnt á þeirri stundunni, þess má hreina þýðing líta, það er: manna frelsari, sem meinin bætir, gjørla gætir, guðs útvaldra' á jørðunni.

3. Eg vil, sál min! umskurn sára, yfirvega lausnarans, og mæla' um hennar merking klára, meður lærdóm sannleikans,

innri krapta, í mér skapta, efli blessud nádin hans.

4. Allt var hold af blódi borid, banvænt, spjallad, einkisvert, í illsku forhúd ónumskorid, ordid guds þad sýnir bert, med vonzku hótum, lifnad ljótum, løgmál brotid hafdi hvert.

5. Þessa bølvan býsna stránga, bar á herdum Jesús minn, þegar pínu þrauta lánga, þoldi af gudi forlátinn, og þad bannid, ørt med sanni, undirgekkst í þetta sinn.

6. Hans var sál og holdid bædi, hreint af lýtum, flekkad sízt, en míns er edlis saurugt sædi, syndum þakid, bølvad víst, nema eg hljóti, og nýrrar njóti, nádar guds fyrir Jesúm Krist.

7. Hann út sínu hellti blódi, hér med umskurn líkamans, svo í því mætti' eg fridu flódi, fága bústad hjarta-ranns, og forhúd lasta, frá mér kasta, sem flekkar skrúdann innra manns.

8. Óumskorid hef eg hjarta, hugsun ránga geymi þar, og líkamans alla parta,

sem æsa kunna syndirnar, Jesú mæti! gef eg gæti, greitt minn hag til betrunar.

9. Hver sem umskurn hljóta nádi, hann var skyldur løgmálid, upp ad fylla allt á ládi, sem útkrafdi guds réttlætid, og sá vandi, ómælandi, ógnar straffid lagdi vid.

10. Ertu kominn upp ad fylla, allt løgmálid, Jesú minn! og þann bera ángurs kvilla, sem átti ad lida syndarinn, vafinn meinum, i þér einum, endurlausn og hjálp eg finn.

11. Sitt réttlætis klára klædi, Kristur hefur þér, sál min! lént, umskorinn og skírdur bædi, skriptin þetta fær oss kennt, svo gæsi ad skilja, guddóms vilja, um gamla og nýa testament.

12. Adams gamla edlid rotna, átti ad merkja forhúdin, sem i oss gjorir dárleg drottna, med djarfan vonzku kraptinn sinn, holdsins blinda, saurinn synda, signud hreinsar vatnslaugin.

13. Þá Móises guds madurinn hreini, mundi ei bodord umskurnar, Zippóra hans son med steini, sjálf óbedin fljótt umskar,

og mann sinn blíða, brúðurin þýða, blóð-brúðguma nefndi þar.

14. Lætur drottinn lögmálssteina, lasta forhúð sniða af, en Jesú mjúkust mildin eina, minning hennar djúpt í haf, niður-slegir, finnst hún eigi, forþénustan hans það gaf.

15. Blóð-brúðguminn ertu æðstur, orð-inn Jesú! kristninnar, þinnar náðar geisl-inn glæstur, gefi mér ljósið þekkingar, svo veg þinn rati, en vondum glati, verkum gömlu forhúðar! Amen!

## 8. Sálmur.

### Um nafnið: Jesús.

Lagið: Konúng Davíð, sem kenndi.

Mín sála! merk enn fremur, mætast nafn lausnarans, hvar af öll huggun kémur hrelld-um manni til sanns, minnstu miskunar hans, frelsari fús hann heitir, frelsun guðs börnum veitir, frá eymdum andar-banns.

2. Hugsvölun, heilsa, lífið, hjálp og endurlausn frí, nemur burt nauða kífið, nefnist hann Jesús því, ræðir svo ritning

ný, Jesús á jördu borinn, Jesús særdur, umskorinn, Jesús allt öllum í.

3. Nær sem eg nái ad ræda, um nafnid skírnar mitt, öndu vill ángrið mæda, athæfi þekkir sitt, því rofid hef eg hitt, sem gudi heitid hafdi, hvert þó skírnin útkrafdi, gef mér þad, Kriste! kvitt.

4. Nær sem eg nái ad tala, um nafnid, Jesú! þitt, öndunni ord guds svala, upp-ljómast hjarta mitt, af því eg hreppi hitt, sem gud mér heitid hafdi, hvers þó skyldan ei krafdi, allt gefur Kristur kvitt.

5. Aldrei hér einusinni, uppbyrja, sál min! þú, verk þitt úti' eda inni, athuga þetta nú, nema' í nafni Jesú, um adstod ádur bidjir, vid ord guds trúna stydjir, bregdist ei breytni sú.

6. Á kvöldin, minnst þess, madur! máttu ei sofna fyrr, ei heldur uppvaknadur, út gánga' um húsins dyr, ádur en andvarpir, til guds med ordi einu, í Jesú nafni hreinu, eg bid þar ad gætir.

7. Líkamann svo ei sedjir, ad sálin húngr-ud sé, né holdid gjálíft gledjir, med glis-

legu sælgæti, í Jesú náðar nafni, þér eptir þørfum nýtir, það sem drottinn útbýtir, af sínu ørlæti.

8. Athugavert er annað, í þíns lifernis sið, þér er berlega bannað, að brúka Jesú nafnið, hégóma hjalið við, að þarfleysu sízt skalt sverja, þó satt mál hafir að verja, það sé þinn máti og mið.

9. Ætið kann illa skarta, á túngu' og vørum þér, nafnið svikarans svarta, slíkt kristnum forðast ber, blót íllt og bølvið hér, blíðri guðs blessan sneiðir, með bølvan sálu deyðir, og áfellis aflar sér.

10. Nær sem mig kvelling kremur, kross eður ángurs þrá, Jesú Kristi mér kemur, kært nafn í huga þá, mig, guð! þar minntu á, til hans miskunar mæni, mæddur tárast, grátbæni, traust hef eg allt þar á.

11. Miðt á meðlætis stundu, mótgángur þegar dvín, jeg bið þig jafnan mundu, Jesú nafn, sála mín! set fyrir sjónir þín, guðs son í fátækt fæddan, fánýtum reifum klæddan, hørmúng hlaðinn og pín.

12. Þitt hjartans andvarp eina, með

auðmýkt framflytjist, ákalla, óska og kveina, í Jesú nafni bezt, þess betur bænheyrist, soninn fyrst guð þér gefur, gefið með honum hefur, allt sem á liggur mest.

13. Jeg bið í Jesú nafni, játandi synda þín, gef þú eg glæpum hafni, guð minn! eg leita þín, nær fallvalt fjörið dvín, í Jesú nafni náða, nær og hugga margþjáða, af sorgum sálu mín! Amen!

## 9. Sálmur.

### Um reisu vitrínganna til Jerúsalem, og spurníng Heródis til kennimannanna.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Í Betlehem þá borinn var, blíður Jesús, og dvaldi þar, vitríngar komu úr austurátt, í Jerúsalem furðu brátt, eptir spurðu: Hvar er nú sá, úngi konúngur Júðum hjá?

2. Eina stjørnu í austurheim, sem eignuð verður kóngi þeim, sjálfir berlega sáum vér, síðan reisandi komum hér, hann að tilbiðja hreinan nú, með helgri bæn og réttri trú.

3. Sjá hvad dýrdlegur drottinn er, þó dyljist undir fátækt hér, fólkinu boda fæd-ing hans, fögur himintúngl víst til sanns, sínum skapara svo sem bar, sæmd og lotn-ingu veittu þar.

4. Peink um, mín sál! ad son guds er, sú sanna Jakobs-stjarna hér, hvers vald og hátign, veglegar, vegsama morgunstjörn-urnar, hans dýrdar auglit himnum á, hei-lagir einglar jafnan sjá.

5. Heidinna manna hjörtum í, hans nád-ar birta lýsti því, úr fjarlægum löndum ferdast víst, fúsir ad líta Jesúm Krist, honum gudlegan heidur tjá; heilagur andi fræddi þá.

6. Á dögum þeim, sem Davíds son, dýrd-legur ríkti Salómon, úr Arabia vitja vann, vegleg drottning ad skoda hann, háleita speki hlýddi á, hógvær prísadi sælu þá.

7. Dávíds son Jesús þegar þar, af þýdri jómfrú fæddur var, úr austurvegi á hans fund, audmjúkir komu' um sama mund, heimsspekingar ad heyra' og sjá, hulda gud-dómsins vizku þá.

8. Heródes vard þá heyrdi þad, hræddur og fólkid allt í stad, kennidóm saman safna réd, svo og skriptlærdum øllum med, spurdi, hvar skyldi fædast fús frelsarinn manna, sæll Jesús.

9. En þeir svørudu allir þar: J Davídsborg; því skrifad var: Betlehem Júda byggd ertú, borgunum eingum minni nú, af þér mun fædast frægur vel, foringinn yfir Israel.

10. Illur Heródes óttast vann, af því hann meinti frelsarann, jardneskan kóngdóm kunna' ad fá, svo kollsteypast yrdi vøldum frá, spádómanna ei gætti greitt, gat sig sjálfan í villu leitt.

11. En med því Jesús ei var þá, opinberadur jørdu á, til þess hann heimsins tignar skart, tæki á sig og skraut óþarft, forgefins hrædslu hjarta í, Heródes kóngur fékk af því.

12. Þitt var ei ríki af þessum heim, þú girntist ekki veraldar seim, sæti Jesú! en sagdir þó, sakfeldur fyrir Pilató, ad þú

konúngur værir víst, þó virding af því hlytir sízt.

13. Það sem Heródem hrella vann, huggar mig aumann glæpamann, því son guðs er minn kóngur kær, kominn af meyu hreinn og skær, óhræddur í þér nýt eg nú, náðar og frelsis, minn Jesú!

14. Andlegrar stéttar alla senn, að spyr Heródes forvitenn, hvernig skriptirnar hljóði þar, um hingaðkomu guðs sonar, svo vita feingi víst til sanns, vissu um fæðing lausnarans.

15. Illska og slærð þar undir bjó, athuga skaltu, sál min þó, orðsins þénarar eru hér, til uppfræðingar settir þér, hjartans einlægni haf þá við, hatadu fals og svikræðið.

16. Nær þín skynsemd ei skilur enn, skriptlærða Drottins kennimenn, orðsins þýðingu eptir spyr, svo opnast megi trúar dyr, lykill vizku þeim léður er, ljúka þeir gjarnan upp fyrir þér.

17. Hitt er og líka hrópleg synd, ef hrekkjafulla svika mynd, með fávizku skyni

fegrar þú, og falsar Kristi þjóna nú, sjálfur skaparinn sér og veit, soddan vonzku í hjarta reit.

18. Unn þú mér fyrir utan prett, orð þín, Jesú! að grunda rétt, ástgjöf og verkan anda þíns, uppfræði skilning hjarta míns; hvað sem lífsanda hræring ber, heiðri þitt nafn um eilífðer! Amen!

## 10. Sálmur.

Um falsráð Heródis við vitríngana.

Lagið: Nú bið eg guð, þú náðir mig.

Heródes fullur hræsni þá, heimuglega nam kalla á, vitríngana og vildi mest, vita nær stjarnan hefði sést, til Betlehem þeim vísa vann, við þá hafði skilmála þann: farið og spyrjið fljótt að því, fædda barninu staðnum í.

2. Þér skuluð segja þetta mér, þegar að barnið fundið er, svo ásamt yður ørt í stað, eg megi koma' og biðja það. Svik og prettvísi' í brjósti brann,

bölvud öfundin nisti hann, undir hilmingu audmýktar, úlfur glepsandi fólginn var.

3. Undirferli og illsku þel, aldrei kann gudi þóknast vel, fyrir hans sjónum sizt er leynt, svikrædi manns og ged óhreint, Jóab hrekkvísi' í hjarta bar, hulda med skyni vinsemdar, snögglegan bana beid af því, blindadur Abner tryggdum í.

4. Hreint vill drottinn þitt hjarta sé, honum þjónandi' í elskunne, þú skalt og vita ad hatar hann, hræsni og slærd vid náúngann, illa luktandi ertu þá, ef þínum vörum geymir á, húnángid sætt, en innra er, eitur fólgid í brjósti þér.

5. Jessabel drottning byggda snaud, djarflega Nabot svipti aud, Júdas forréd med kossi Krist, kannadi Jósep svikalist, Mardokeum vill heingja hátt, Hamans vélrædi' og gedid flátt, snöruna sjálfur hreppti hann, hendir þad tídum prettvísan.

6. Sá sem náúnga sínum ill, svik og slárædi brugga vill, sálu viljandi setur hann, í svika nót og kvala bann, hrekkvísra stundum bogi brast, þá búid var ad spenna fast,

margur stein=daudur dettur hér, í dýki sem ødrum grasid er.

7. Hast nú fridur frelsarinn, med falsi verid umsetinn, í hvers munni ad illsku hót aldrei fundust né svikin ljót, skyldir þú, sál mín! þeinkja þá, þú munir klakklaust sneida hjá, veraldar illum véla sid, sem vís er þér á alla hlid?

8. Kaleikur sá sem saup hann hér, sett=ur verdur og tidum þér, undanskora sig einginn kann, ádrykkju=skamt ad hreppa þann, margur óvørum verdur því, veiddur svikanna neti í, optlega frómur falla hlaut, falsadur djúpt í pretta laut.

9. Í einum munni túngur tvær, tálid einføldum smída þær, lof í eyrum en last á bak, frá lukku og gæfu margan rak, opt verdur þeim, sem hugsar hátt, hégóma losid næsta slátt, villtur er sá, sem vill med því, vegsamast allra munni í.

10. Heródes vildi hér sem fyrst, í helju færa Jesúm Krist, fróma vitringa hrekkvís hann, hyggst ad leida í vanda þann, svo þeirra einlægt áform þar, yrdi Kristó til

gløtunar, tvøfalt vonzkunnar tálid því, tvøfoldu hjarta geymdi í.

11. Rádvanda þánka' og hjartad hreint, herrann gefi mér ljóst og leynt; fláráðum heimsins flærdar sið, forda mér, Jesú! þess eg bið, innrættu hjá mér einlægan, elskuþela við sérhvern mann, lát mig fram gánga falslaust hér, svo fái eg dýrdar víst hjá þér! Amen!

## 11. Sálmur.

### Um bæn og offur vitrínganna.

Lagid: Oss lát þinn anda styrkja.

Vitríngar hlýtt nær høfdu, Heródis rædu á, í þeim stad ekki tøfdu, enn leingra héldu þá, sjá þú ad stjarnan bjørt og blíd, undan þeim gánga gjørdi, greiddi veg heidnum lýd.

2. Stadar svo nema nádi, næst yfir húsi því, sem ádur um eg tjádi, inni var barnid í, glødduſt vitríngar þar vid þá, inngaungu ekki fresta, er þeir stjørnuna sjá.

3. Frelsarann finna gjørdu, og fríða

meyu þar, féllu flatir á jørdu, fúsir til audmýktar, tilbádu þetta barnid blítt, gull, myrru, gott reykelsi, gáfu í offur nýtt.

4. Láttu guds leidarstjørnu, lýsa þér, sál mín kær! frá myrkri glæpa-gjørnu, gánga skalt Jesú nær, syndanna flýdu selskapinn, guds orda birtan blída, bezti er leidtoginn.

5. Þú hefur leid ei lánga, lausnara' ad hitta þinn, veg máttu greidan gánga, guds í musteri inn, vit þú ad hjarta þitt er þad, sem Jesús sjálfur kjøri, sér fyrir hvílustad.

6. En þú skalt ad því hyggja, ekki vill Jesús þar, hjá óhreinum øsnum liggja, eru þad saurugar, girndir holdsins og glæpa brek, þvílíka illsku anda, úr þínu hjarta rek.

7. Sízt má Ismael erfa, Isaak frjáls-um med, Agar skal á burt hverfa, eins og fordum er sked; blídur Kristur og Belíal, samneyti ekkert eiga, athuga þetta skal.

8. Þessu næst merkja máttu, mín sál! hvad skyldugt er, guds syni andlegt áttu, offur ad færa hér, á hreinu altari hjarta-

ranns, því drottinn þiggur gjarnan, þakklæti syndugs manns.

9. Guds syni fórnir færdu, fródir vitringar þar, þeirra þýdingu lærdu; hér til uppfrædingar, allt er skrifad, sem ord guds tjá, lif og andi þau eru, ætid minnstu þar á.

10. Get eg ad gullid þýdi, guds barna sanna trú, mótlæti margt þó lidi, missir ei kraptinn sú, eins og gullid í ofni reynt, trúin ad vísu verkar, von og þolgædid hreint.

11. Vill min trú veikjast tídum, veiztu þad, Jesú, bezt, þá ad slær ángurs hridum, opt hefur stóran brest, eins og hørkveikur hálfslokkinn, ei lát þó út af deya, Endurlausnari minn!

12. Myrrunnar merking gefur, mótkast og andstreymid, beiskan smekk heilnæm hefur, holdid tregast þar vid, illa luktandi synda sár, af þessu hreinsun hljóta, heilsubót er þad klár.

13. Beiskan bikar á jørdu, birlar mér hørmúngin, sjálfan hann sætan gjørdu, sonur guds, Jesú minn! auktu mér þol og trausta trú, þegar eg kalla' og kveina, krossþjádum hjálpa þú.

14. Reykelsi hreint má heita, hjartanleg bænagjord, hún megnar hátt ad leita, i hædirnar upp frá jørd, i gegn um skýin sér þreyngir þá, i nád og gækzu gedi, gud hana litur á.

15. Hún er ilmur ágætur, eilífum drottni kær, og reyndar reykur sætur, sem rétt til himins nær, daglega henni offra átt, sál min! af þeli þýdu, þessu ei gleyma mátt.

16. Svoddan fjársjódu frída, fram bera skaltu hér, fyrir lausnarann lýda, lætur hann þóknast sér, þetta andlega fórna fé, er þú munt aptur sídan, upp skera' i dýrdinne.

17, Avísun eina feingu, í draumi vitríngar, annan veg á burt geingu, aptur til heimferdar; Heródes ei þad vita vann; hans rád ad eingu urdu, opt svo til bera kann.

18. Vélrædi vondra manna, verdur til skammar titt, þad sem guds bodord banna, blessast illgjørnum litt, þvi drottins vald og réttvist rád, slægd hins hrekkvisa hindrar, hreinlyndum veitir nád.

19. Af hjartans þeli þýdu, þér vil eg

hvert eitt sinn, með elsku og ástar blíðu, offra, lausnari minn! sál og líkama svo sem ber, þig bið til þakka taka, þann litla skeink af mér. Amen!

## 12. Sálmur.

### Um hreinsun Maríu.

Lagið: Til þín heilagi herra guð.

Hér næst þá dagar hreinsunar, hennar uppfyllast náðu, eptir løgmáli Mósis þar, mey og Jósep þess gáðu, til Jerúsalem høfðu hann, á hendur fela nýfæddan, drottni, sem skriptir skráðu.

2. Allt það karlkyns, sem út gekk fyrst, af lífi mæðra sinna, hæðstum drottni var helgað víst, hér um løgmál réð inna, tvær skyldu offrast til þess þar, turtildúfur, sem skipað var, eður par annað minna.

3. Jesús heilagur fæddist fyrst, af fríðri jómfrú Maríu, hvers vegna stand mitt helgaðist, hlaut eg blessan að nýu, lastanna

fjøtrum leystist af, líf nýtt sálunni drott-inn gaf, med nádar frelsi frýu.

4. Heiløg vatns-laugin hreinsa réd, hold-lega fæding mína, nýfæddum innra manni med, mæta nád gjørdi sýna, kraptur þess rauda Kristi blóds, kom minni sálu þá til góds, bezt kann þad skart ad skína.

5. Barnamædurnar máttu' ei fyrr, must-erisgaungu brúka, hver skyldi sitja heima kyrr, og hressing ødlast mjúka, sjálfur gud drottinn setja réd, sængurkvinnum þad tak-marked, nær offur áttu' ad lúka.

6. Þær um til tekid tíma skeid, teljast ó-hreinar áttu, áminntu løgmáls ordin greid, edlis saurgunar háttu, fyrir gudi þó voru víst, vel þokkadar og brást þad sízt; sál mín! þad merkja máttu.

7. Evu var fordum ávísad, eptir sitt fallid skæda, sín skyldi børn (og satt er þad), med sótt og harmi fæda, athæfis hennar allt þar frá, adrar gjalda, sem von er á; helg var sú herrans ræda.

8. Aptur María fridan fann, føgnud andlegra gæda, eingill bar henni bodskap

þann, barn eitt skyldi hún fæda, afkvæmis hennar allt þar frá, adrar njóta, sem von er á; góð er sú gledi ræda.

9. Til brennifórnar únglamb eitt, áttu þær fram ad bera, ein dúfa svo sem sagt var greitt, synd-offur skyldi vera, en ef lambid var ekki' ad fá, annar dúf'-únginn brenndist þá; lögmáls ord ljóst þad gera.

10. Maríu þörf var ekki á, offur hreinsunar gjalda, af því ad hennar son var sá, son guds um aldir alda, sem til hreinsunar holdlegs manns, hellti út blódi líkamans, þá hann leid krossinn kalda.

11. En til þess lögmál uppfylltest, eptir lögmáli skedi, helgrar Maríu hreinsun bezt, af hjartans elsku gedi, svoddan velgjörnings minntist med, sem miskun drottins veita réd, í ædstu andans gledi.

12. Fórnar-lamb gjördist frelsarinn, fyrir oss dauda seka, af þvodi synda saurindin, setti út borgun freka, þegar hann sælum sigri med, Satans dempadi ofríkid, sem vora sál vildi fleka.

13. Hugleid þú dæmin dyggda fród, dag-

lega, sál min kæra, börnin eru guds gáfan góð, gott skaltu honum færa, offur fyrir þitt afkvæmeð, er það þakklæti og lofgjörð með; gøfga hans gæzku skæra.

14. Barn þitt til Jesú berðu hér, blessun svo hreppa megi, hann vill ei annað þiggja' af þér, þetta lát bregðast eigi, það sem guð sjálfur gaf þér nú, gefa skalt honum aptur þú, af hjarta' á hverjum degi.

15. Legg þú á Jesú blessuð brjóst, barn þitt í æsku sinni, sannleik guðs orða lát því ljóst, liða aldrei úr minni, heilnæma mun það hreppa þá, hamingju' og farsæld jörðu á, en allt gott í eilífðinni.

16. O Jesú! guðdóms gæzkan trú, gæt að andvarpi minu, bið eg grátandi, börn min þú, berir í hjarta þinu, ljótan svo forðist lasta keim, til lífsins síðan færir heim, frá dauðans dapri pinu. Amen!

## 13. Sálmur.

### Um hinn guðhrædda Símeónem.

Lagið: Jesú Kriste þig kalla eg á.

Sjá þú í Jerúsalem var, Símeon,

gamall madur, gudhræddur, lifdi þessi þar, þjón drottins réttskikkadur, eptir Israels huggun hann, hvern dag svo vænta nádi, og gjörla gádi, þess sem gud heimi heita vann, og heiløg ritn= íng um spádi.

2. Af anda guds var andsvarad, ei skyldi daudann kanna, fyrr en med sjónum sæi þad, sæta hjálprædid manna, ávísun fékk í anda þar, inn í musterid gánga, og føgnud fánga, hvar Jesú frídir foreldrar, frømdu bænagjørd lánga.

3. O! hversu gudi gedfelt er, gott og loflegt sidferdi, i herrans ótta hegda sér, helgur Simeon gerdi, þolinmódur svo þreya vann, þar til hann fekk ad lita, þá nád guds nýta, sem í Kristó af hædum hann, heiminum út réd býta.

4. Hjarta réttkristins heita má, heilags anda bústadur, happadrjúgur og sæll er sá, sem hann herbergjar gladur, hverjum sem gódur gud er med, gott allt veitist þeim sama,

með frægð og frama, ástfólgið drottins gæzkugeð, geymir sál og líkama.

5. Athæfið frómt og auðmjúkt þel, umbun dýrmæta hreppir, lítilátum guð launar vel, í læging dramblátum sleppir, augu trúaðra' í anda sjá, endurlausnarann sæta, og miskun mæta, huggun blíða í heimi fá, á himnum dýrð ágæta.

6. Símeon lífsins götu gekk, guðs anda leiðsögn fylgði, með líkamans augum líta fekk, lausnarans sætu mildi; hvern dag, sála mín! hlotnast þér, herrans auglit að skoða, sem blessuð boða, orð guðs trúuðum öllum hér, til eilífs lífs þau stoða.

7. Ei kann eg holdsins augum með, ásjónu drottins líta, fær þó í trúnni sál mín séð, hans sonar gæzku nýta, þessi dýrmætust sálar sjón, sorgandi gleður hjarta, með birtu bjarta, í augsýn drottins er mín bón, eg mætti fagurt skarta.

8. Á mínum trúar örmum hér, eg vil þig, Jesú! bera, breið þú þinn faðm á móti mér, mun eg þá hólpinn vera, unn mér að sjá í anda þig, áður en dey eg héðan, og

mest á medan, þar til um árin eilíflig, med augum sæ þig sédan.

9. Sælan má kalla Simeón, þá son guds lita nádi, há-aldradur, med holdsins sjón, hvar eptir leingi þrádi, réttlátur, Jesú réttlætid, reiknadi' í mesta gildi, og vist sér vildi, i helgri trú þar halda vid, hreinum guds ordum fylgdi.

10. Miklu sælli má segja þá, sál min þess skaltu gæta, sem med augunum ekki sjá, en guds hjálprædid mæta, med trúar hendi taka' ad sér, treystandi drottni einum, af huga hreinum, svoddan athæfi sómir og ber, sönnum Krists lærisveinum.

11. Þegar Stephanus stein-kast vid, stöd-ugur gaf upp anda, sá hann gudi á hægri hlid, herrann vorn Jesúm standa, gladvær af þeirri sælu sjón, signadan hreppti dauda, med trú ótrauda, leid svo viljugur lifs-ins tjón, leystur frá sorgum nauda.

12. Ef þú á Jesú auga-stad, önd min! i trúnni hefur, þótt helid komi höndum ad, hrædsla þig eingin kefur, ókvidin máttu ef-laust þá, i gudi burtu deya, og þolug þreya,

heimsins adkast og þúnga þrá, þig láttu aldrei beygja.

13. Þegar eg daudans ángist i, ørmagna hlýt ad kveina, styrk þinn, Jesú! i stridi þvi, stadfastan lát mig reyna, hjartans augum þig horfi á, himininn opinn standi, svo lifs á landi, hjálprædis' megi eg høfnum ná, hædstan gud vegsamandi! Amen.

## 14. Sálmur.

Um loffsaung Simeons.

Lagid: Fadir á himna hæd.

Símeon sveininn þann, segir gudspjallamann, á sina arma lagdi, einn gud prísadi' og sagdi:

2. Nú láttu þjóninn þinn, þýdasti drottinn minn! hédan i fridi fara, frá heimsins glæpa skara.

3. Af því ad augum med, eg sá þitt hjálpræded, er þú øllum tilreiddir, i augsýn þjóda framleiddir.

4. Lýd heidnum ljómar þar, ljós til uppbirtíngar, og guds andlegrar hirdar, Israels þjód til dýrdar.

5. Saung gladur Simeón, sannreyndur drottins þjón, fagran dikt sálu sinni, set það, min ønd! i minni.

6. Fridland ad hafa hér, heimurinn bannar mér, mótkast og óvild eina, optlega hlýt ad reyna.

7. Verøld má reiknast rétt, reisutjaldbúd óþétt, á hana hreggin hrynja, hretvidrin yfirdynja.

8. I hana allir hér, inngánga hljótum vér, strax á øndverdum aldri, med eymd og þjáning margfaldri.

9. Vor er ad visu laung, vegferdarreisan straung, áleidis ótt án tafar, á fram holdum til grafar.

10. Hreppir þá hvildarstad, holdid vort ørmagnad, á medan sætt það sefur, sálin víst fridland hefur.

11. A himnum hvild og ró, henni vor Jesús bjó, i alls kyns eptirlæti, unun og dýrdarkæti.

12. Viljir þú fagra fá, fridar-víst gudi hjá, sál min! Simeons dæmi, set þér med lærdóms næmi.

13. Friðsaman fékk hann deyð, fyrst hann trúaður beið, eptir frelsarans fundi, fagnandi þar við undi.

14. Friðsaman afgáng enn, allir hljóta þeir menn, sem frið og frómleik stunda, fram til síðustu blunda.

15. O! hversu sæll er sá, sem svikulum heimi frá, í friði fær að gánga, frjáls við armæðu stránga.

16. Mín sál! það merkja ber, hvað mætur Simeon tér, kallar hann guðs son góða, glatt ljós heiðinna þjóða.

17. Forfeður vorir verst, verkin myrkr-anna flest, frømdu á fyrri øldum, af forn-um Adams vøldum.

18. Myrkra dal djúpum í, daglega geingu því, um guðs orðs blíða birtu, blindaðir lítið hirtu,

19. Myrkra børn vorum vér, viltir ráf-uðum hér, dýrkuðum stokka' og steina, styggð-um skaparann hreina.

20. Blindaðir illsku í, øllu høfnuðum því, sem guð oss sagði forðum, í sínum løgmáls orðum.

21. Augsýn guds áttum frá, í yztu myrkur þá, kastast um aldir alda, eymd ad líða margfalda.

22. Edla ljós upp rann þar, upplýsti sálirnar, af guds hátignar hædum, himneskum fyllti gædum.

23. Esa-ias um þad, ádur fékk prédikad, í myrkvum stad mundi skína, med fagra geisla sína.

24. Lausnarinn ljós þad er, ljóma guddómsins ber, fødursins ímynd eina, ord postulans þad greina.

25. Þessi guds birtan blíd, birti upp heidinn lýd, bjart ljós því ordnir erum, ímynd guds sonar berum.

26. Andi guds upptendrar, í oss ljós huggunar, sú guddóms gæzkan bjarta, glansar í voru hjarta.

27. Sá ljómi lýsir mér, þá líkamans sjónin þver, myrkur daudans því dvína, dyrfir þad sálu mína.

28. Láttu þá þjóninn þinn, þess bid eg, Jesú minn! øndu sætlega sleppa, en sálina føgnud hreppa! Amen!

## 15. Sálmur.

Um spádóm Símeónis út af Kristó.
Lagid: Skaparinn stjarna herra hreinn.

Og hans foreldrar undrast þar, af honum þad sem talad var, Símeon bædi blessar nú, blídur sagdi vid María frú:

2. Sjá þú ad þessi settur er, summum til falls, sem midur fer, en til uppreisnar ødrum senn, Ísraels fólk þad reynir enn.

3. Er hann þad teikn sem móti er mælt, margir sér vid hann gjøra dælt gegn um sál þína sverdid hér, sárlega mun og þreyngja sér.

4. Svo augljós verdi allmargra, innvortis hugskot berlega. Gefdu, min sála! gaum á ný, grandvarlega ad efni því.

5. Undrunarlegur øllum hann, med undrum fæddist gud og mann, undrast María einnig þar, undarlegt rád guds hátignar.

6. Eitt er þad, sál min! undravert, yfir því spámann klagar bert, høfud andlegrar hyrningar, af húss-byggendum forsmád var.

7. Sjá þú ad ritning segir hrein, sett hefur gud einn fastan stein, til grundvallar í Sion senn, svo ad yfir hann byggi menn.

8. Sál min! ad þessu hygg þú hér, hyrningarsteinn sá Jesús er, merk ad á honum einum fast, endurlausnin skal grundvallast.

9. Einginn fær grundvøll annan lagt, eins og Postulinn hefur sagt, heldur en þann sem eitt sinn er, uppreistur; þetta lesum vér.

10. O! hversu grátlegt er þad þá, allmargir honum steyta á, yfir hann falla og aldrei meir, aptur komast á fætur þeir.

11. Ollir því tídum vantrú verst, þó veiti gud hvad hans er bezt, verdur ad illu einu þad, ef ógudlega er medhøndlad.

12. Heiminum soninn sendi gud, sú miskun var ei forskuldud, svo þeir hann trúa eflaust á, eilífu lífi skyldu ná.

13. Gáfu ei Júdar gaum ad því, geingu vonzkunnar blindleik í, hjálprædis steyttu hellu á, hefur þad fallid skadad þá.

14. Veit eg ad þeirra villan er, til vidvørunar skrifud mér; sjádu vel til, min sála! nú, á syni guds ei hneixlist þú.

15. Sonur guds Jesús settur var, synd-ugum mér til uppreisnar, þegar eg flatur fallinn lá, flárádum heimsins stigum á.

16. Medal ræningja rasa vann, sem ræntu mig klædum sáradan, særdan létu mig liggja þar, lágt í saurindum veraldar.

17. Heimur, djøfullinn, hold og blód, held eg væri sú illsku-þjód, er minni hrøsun olli frekt, aldrei gat eg þad fyrri þekkt.

18. En guds son Jesús er sá mann, sem upp mig reisa úr saurnum vann, ljóssins arfskipti lét mig fá, lifandi manna jørdu á.

19. Ljúfasti heimsins lausnarinn, leid af syndugum mótmælin, þegar á jørdu þoldi pín, og þúnga neyd fyrir brotin mín.

20. Rættist Simeons saga þar, sverdid Maríu hjarta skar, þá alblódugan sorgfull sá, son guds krossinum hánga á.

21. Andlega, Jesú! upp mig reis, úr and-ar háska sálu leys, andlega lofgjørd eg skal hér, med anda og munni sýngja þér! Amen!

## 16. Sálmur.

### Um Önnu spákonu.

Lagid: Náttúran øll og edli manns.

Spákona hét þar Anna ein, af Asers barna lidi, Phanúels dóttir dygg og hrein, dýrkadi helga sidi, hafdi sjø ár, í hjarta klár, haldid med ektamanni, meydómi frá, sem frædin tjá, fannst opt í helgum ranni.

2. Vetur um áttrætt fjóra frú, feingid hafdi ad lifa, út úr musteri ei gekk sú, um þad Lúkas réd skrifa, nóttu sem dag, med helgum hag, hædstum gudi þjónandi, fastadi títt, og bad mjøg blítt, blessud í ekkjustandi.

3. Þessi ad stundu þángad gekk, þakkadi drottni einum, med vísdóms anda vitnad fékk, vel af guds syni hreinum, til allra þar, sem eins hugar, eptir lausninni þrádu, med hugar sorg, í sømu borg; sál mín ad þessu gádu.

4. Skírlífid gudi gedjast vel, gódri skikk-

an kann valda, herrann álitur hjartans þel, hann vill það endurgjalda, það hjónaband, er heilagt stand, sem heiðarlega er vandað, óflekkað, hreint, ljóst bæði' og leynt, með losta girnd ei blandað.

5. Einmana stand og ekkjudóm, opt fá guðs børn að reyna, en drottins hjálpar høndin fróm, hugga vill þau alleina, ekkjurnar hann, aðstoða kann, einstæðings sauðum bjarga, hans gæzkan þýð, og blessun blíð, breitt hefur svo við marga.

6. Ekkjan sú sem í Sarepta, samastað átti forðum, aðstoð hreppti af Elía, eptir guðs náðar orðum, hennar lífs bjørg, um málin mørg, mjøg svo lítil þó væri, drýgjast svo vann, að drottins mann, dvaldi þar í hallæri.

7. Drottinn ránglátum hótar hart, (sem helgir spámenn greina), upp skuli taka ekkju skart, einmana hrópa' og kveina, óbyrjur senn, og ekkju menn, á einum degi verða, það harma bøl, og hefndar kvøl, hofmóðinn kann að skerða.

8. Ekkja þessi á Júða jørð, Jesú mjøg

eptir þrádi, med bindindi og bænagjørd, blídan gud dýrka nádi, skírlíf og klár, sín elliár, aflifdi' i byggdum sønnum, háöldrud þar, þolgædi bar, þóknadist gudi' og mønnum.

9. Audnadist henni æra sú, med augum sínum skoda, heimsins lausnara helgan nú, hinum réd føgnud boda, sem væntu þar, guds vitjunar, vongódir lángar tídir, ad heimi sé, þad hjálpræde, af hædum veitt um sídir.

10. Er þad hjartanleg óskin mín, endurlausnarinn kæri! ástvina þegar adstod dvín, andlega huggun færi, nálægd þín mér, svo nái' eg hér, ad njóta gledi samvista, og eignast þig, sem elskar mig, um eilífd hjá þér gista! Amen!

## 17. Sálmur.

### Um heimreisu Jóseps og Maríu.

Lag: Lof saung gudi mey María.

Og sem þau høfdu allt fullgjørt, eins og løgin útkrøfdu, snéru þau bædi aptur ørt, í Nazaret svo tøfdu, en sveinninn þar, sem vonlegt var, vóx og

styrktist í anda, med vísdóms frægd, guds nádar nægd, nam hjá honum ad standa.

2. Ei skaltu, sál min! umsvif þin, út-rétta' i hússtjórninni, fyrr en ad gudi gjøldin sín, greidir af hendi þinni, hans óttinn er, til alls góds hér, upphaf, fullkomnun lika, af gudi þá, munt frida fá, farsæld blessunarrika.

3. Þjónustu drottins þú skalt fyrst, þýdlega af hendi láta, aptur á móti áttu víst, athvarf i sérhvern máta, erfidi þitt, og annad hitt, sem útkrefur forsjón dýra, hans gæzku fel, gud mun þvi vel, til gódra nota stýra.

4. Hafdu gud æ fyrir augum hér, allt kann hann gott ad veita, ef þú hans rikis ætid hér, ástundar fyrst ad leita, hans blid og hrein, blessun er ein, betri en tíu synir, i bøli og þrá, bezt hjálpa má, þó bregdist allir vinir.

5. Fyrir barninu brýn þú fyrst, blessadan drottins ótta, kenn þvi ad hata heimsins lyst, med holdlegum girnda þótta, sid-

an láttu þad læra nú, loflegt handa erfidi, svo daglegs brauds, og ærlegs auds, afli med kristnum sidi.

6. Þú skalt vita ad þetta tvennt, þénar réttkristnum manni, dýrkun guds orda, og dagleg mennt, dæmin trúi'eg þad sanni, sú idjan bezt, ef innrætest, ávöxt blessunar færir, aldradur þad, fær erfidad, sem úngur fyrri lærir.

7. Smekkurinn sá sem kemst í ker, kann ei í burtu færast; hvad úngur tamdi í æsku sér, öldrudum verdur kærast, elskan vid Krist, skal allra fyrst, inni í hjarta rótum, gródursetjast, og grundvallast, med gódum dyggdahótum.

8. Jesús í anda vaxa vann, med vis-dóms þroska sínum, stødug guds nád réd styrkja hann, strax í úngdómi sínum, eins líka sker, ef barn þitt ber, í brjósti og hjarta ranni, dygdanna sád, guds gæzka og nád, gefst hinum únga manni.

9. Andleg vizka guds óttinn er, sem úng-um byrjar læra, tignar mennt þessa temdu þér, í trúnni, barn mitt kæra! guds krapt-

ur hár, þín ungdóms ár, eflir í dyggdum hreinum, hann einan vid, med helgum sid, halt þér í öllum greinum.

10. Börnin, Jesú! þá láttu líst, læra af dæmi þínu, ad helgum dyggdum, veru og víst, veiti í hjarta sínu, skynsemd og ráð, skaparans náð, skæra svo hreppa megi, í hverjum stad, þér hallist ad, en heiminum sæti eigi! Amen!

## 18. Sálmur.

### Um vitrun Jóseps.

Lagid: Sá frjáls vid lögmál fæddur er.

Jósep birtist í draumi dýr, drottins eingill og sagdi: Tak þig upp skjótt og haltu hýr, hédan ad snöggvu bragdi.

2. Þú skalt barnid og mæta mey, med þér í burtu flytja, leingi því fresta áttu ei, til Egyptalands vitja.

3. Til þess eg aptur tjái þér, tímum skaltu þar eyda, Heródes því ad hyggur sér, heilagan sveininn deyda.

4. Hugleid, mín sál! guds nýta náð,

með nákvæmd grunda hana, vill hann ekki að vonzku ráð, veiti réttlátum bana.

5. Opt hefur drottins andi mig, við illum háska varað, og á hrekkvísum heimsins stig, í hættunni líf mitt sparað.

6. En þó guðs orð mér ávísi, illt að forðast í heimi, til vareygðar í velgeingni, varla trúi' eg mig dreymi.

7. Gáleysi holdsins gef eg taum, gæti lítt skyldu minnar, framleiðist svo mín æfin aum, í óminni syndarinnar.

8. Veglega Jósep vitran hlaut, af vísu drottins ráði, fyrir það Jesús friðar naut, á framandi manna láði.

9. Neið þú þig, sál mín! ekki á, opinberanir slíkar, vill guð þér ekki veita að sjá, vitranir spádóms ríkar.

10. Spádóma tíminn úti er, orð drottins þetta sanna, varast að stofni í villu þér, vísindin falsspámanna.

11. Draum-spekinganna heimskuhót, hégóma skaltu meta, brjóta þeir drottins boðum mót, blindað sálina geta.

12. Hefur guð stóra andstyggð á, illum

spásagnar lýdum, vegum drottins þeir víkja frá, véla einfalda tídum.

13. Þú mátt vita ad er þad ein, afgudadýrkun líka, af því fordast á alla grein, óvizku fremja slíka.

14. Vilja drottins þú merkja mátt, mjøg vel í helgum frædum, þar vid þig halda ætíd átt, eptir spámanna rædum.

15. Hálfverk er speki holdsins naum, hálfverk vitsmunir allir, heimsins skynsemd ei gef ad gaum, gæt þín svo ekki fallir.

16. Einglanna sjónir ekki hér, í voru holdi sjáum, sídarmeir þessa vegsemd vér, ad vilja drottins fáum.

17. Myrkranna eingill, merk þad vel, mønnum kann svíka leita, megnar hann opt med illskuþel, í eingil ljóssins sér breyta.

18. Samúels kyrtli klæddur hann, kom úr jørdunni fordum, konúnginn Sál svo kvedja vann, med køldum skyggdar ordum.

19. Kónginum var gud vikinn frá, vildi ei andsvar gefa, drauma fékk ei né sjónir sjá, svo féll í vil og efa.

20. Þess vegna Satans svikin ljót, sálu

hans blekkja gjørdu, féll hann svo á sitt eigid spjót, andvana datt ad jørdu.

21. Forda mér, drottinn! djøfuls slægd, og drauma villum leidum, sál minni veittu hugarhægd, med hjálprædis krapti greidum! Amen.

## 19. Sálmur.

### Um reisu Jóseps og Maríu til Egyptalands.

Lagid: Oldúngar Júda annars dags.

Upp stód Jósep vid ordin téd, ad sér tók frú og barnid med, á náttarþeli þá til sanns, med þeirra fans, á fram hélt til Egyptalands.

2. Til þess Heródes dauda dó, dvøldu þau bædi' í Egyptó, ordid drottins þar uppfylltist, sem ádur víst, Hóseas spámann hafdi lýst:

3. Egyptalandi eg hef frá, ástkæran son minn kallad á. Vid skulum, sál mín! efnid eitt, útmála greitt, eins og nád drottins fær þad veitt.

4. Utlegdar søkin á mér lá, eilífu dýrdar landi frá, sáran fordæmdra samastad, og

sorgarbad, med syndunum hafda' eg for-skuldad.

5. Flóttamadur eg heita hlaut, heimsins ráfadi svika braut, Egyptalands eg þrældóm þar, og þrautir bar, yfir mig bundu eymdirnar.

6. Vitjadi Jesús mildur min, mæddan leysti af slíkri pín, þrældóms húsinu frelsti frá, og fékk mér þá, hjálprædis bústad himnum á.

7. Á eg, minn gud! ad þakka þér, þrældóms okinu' af herdum mér, kippt er í burt, en kvittud ønd, vid kvida bønd, frelsadi mig þín hægri hønd.

8. Son þinn í útlegd senda rédst, samvizkan min og hjartad gledst, af þvi eg vona eflaust hér, úr augsýn þér, visir í útlegd aldrei mér.

9. Mér er þad fyrir minnstu þá, mig þó verøldin gjøri hrjá, útlegdar timinn eitthvert sinn, mun endast minn, þegar uppbyrjast eilifdin.

10. Israels fólk í Egyptó, vid undra þúnga kosti bjó, útvaldi gud einn mætan

mann, sem múga þann, leiddi bráðlega burt þaðan.

11. Þessi var Móses hýr og hreinn, Herrans þénari dyggur einn, guðs börnum veglegt frelsi fékk, fyrir þeim gekk, yfir um hafsins breiðan bekk.

12. Sonur guðs, Móses annar er, með öllum rétti nafn það ber, þrældóms kvölum oss keypti af, og kvittun gaf, þurkaði rétt hið rauða haf.

13. Undan guðs börnum gánga réð, gegn um reiðinnar hafs-flóðeð, Belials skélfdu bekkir hann, þá banvænan, krossins afsúpa kaleik vann.

14. Er nú hafs djúpið uppþurkað, aldrei kann oss að drekkja það, fáum vér þurran farveg þar, sem flóðið var, frelstir úr grysju glötunar.

15. Auglýsti Jesús elsku þá, útlægur gjörð-ist landi frá, strax á ómála aldri þar, sem áminnst var, einnsaman þrældóms-okið bar.

16. En þú skalt, sál mín! að því gá, Egyptalands fyrst kvölum frá, af guði köll-

ud eitt sinn ert, útvalin bert, forgefins er þad ekki gert.

17. Lát þig ei aptur lánga þar, frá landi drottins gódsemdar, til kjøtkatlanna og kvalabanns, þess kúgarans, yfirherra Egyptalands.

18. Høfdingi hessa heims er þad, sem hafdi þér búid kvalastad; minnstu einnig hvad merkja hér, kjøt-katlarner, vellysting holdsins víst þad er.

19. Kristur moladi høggorms haus, úr hørdu fángelsi slapp eg laus, keypti mér værd og fridar fró, fyrir mig dó, út leiddi svo frá Egyptó.

20. Fyrst ad eg þadan frjáls er nú, fyrir þig drottinn, minn Jesú! inngángur lífsins opinn stár, min øndin klár, sýngi þér lof um eilíf ár! Amen!

## 20. Sálmur.

### Um barna-mord Heródis.

Lagid: Allfagurt ljós oss birtist brátt.

Þegar Heródes heyrdi þar, høfdu hann gabbad vitríngar, fylltist af grimmd og forsi med, sjølda herlids útsenda réd.

2. Øll sveinbørn lífi svipti hann, sem í Betlehem tíma þann, tvævetur voru' og ýngri enn, eins um øll nálæg héruðen.

3. Svo sem hann fordum falsi með, af frómum vitríngum merkja réð, um fædingartíma frelsarans, fordæmanleg var breytni hans.

4. Andstyggilegur er með sann, í augum drottins hver sá mann, sem að mordingja sverðið ber, og saklausu blóði út heller.

5. Blóð þins réttláta hrópar hátt, hefndina' af guði dag og nátt, með ógnar-bræði yfir þann, sem á sig blóðskuld safna vann.

6. Kain hirti' ei um herrans orð, heiptugur framði bróður morð, Abels réttláta úthellt blóð, uppæsti drottins hefndarmóð.

7. Nær sem þér flýgur bræði' í brjóst, bið þú drottinn þinn stilla þjóst, aptra þér sjálfum allra mest, illræðið svo ei framhverfest.

8. Margur í bræði verk það vann, sem vildi feginn ógjørt hann, seinn til reiðinnar sértu því, svo þér ei steypir vanda í.

9. Þótt að þér gjøri menn á mót, mundu

að stilla heiptar rót, hefndina guði gefa ber, gleym ei hver drottins réttur er.

10. Offljótt bráðræði út ef brýzt, opt kemur fram hvar skyldi sízt, saklausan aldrei erta skalt, annars verður hans geðið kalt.

11. Blóðgirugir með svika sið, sitt fá ei hálfnað lífsins mið, reiðin afskræmir sinni' og sál, sárheitt upptendrar vítis bál.

12. Heródes framdi vonzku verk, var hans illgirnin heldur sterk, saklaus börn lífi svipta réð, svall af reiðinni hrekkvíst geð.

13. Saklaus minn Jesú! varstu víst, vélræði hjá þér funduzt sízt, en þér Heródes ætlar pín, úngbörnin lætur gjalda þín.

14. Eg veit að þú ert einn með sann, endurlausnari guð og mann, fyrir þíns úngdóms eymd og pín, úngbörnin láttu njóta þín.

15. Þóttist Heródes vita vel, með valdi ef léti slá í hel, börnin nálægum áttum í, ei mundi Jesús sleppa frí.

16. Urðu hans ráð að eingu þar, ónýtti guð það heimskupar, endurlausnarinn um það skeið, á Egyptalandi saklaus beið.

17. Sá sem á drottinn setur traust, sæll

og hólpinn er efalaust, herrans vardveita hondin kann, frá hættu og slíkum gud-hræddan.

18. Ekki var komin enn sú tíd, á hverri Jesús fyrir lýd, út fossa lét sitt blessad blód, bidlund hérvistar yfirstód.

19. Gud hefur vegi ótal enn, ógudlega ad hindra menn, øll sinna barna høfudhár, herrann sær talid síd og ár.

20. Móti honum ei megnar þar, makt og styrkleiki veraldar, hans vilja einginn hindra kann, hvorki eingill né nokkur mann.

21. Eg veit ad skepnan ekki nein, áreitir mig né gjørir mein, þegar ad hjálpar-hønd-in þín, hlífir mér gud med krapti sín.

22. Ahyggju minni eg vil því, upp á þig varpa trúnni í, grædarinn Jesú gæzku ør, gefdu mér sæla burtu-før! Amen.

## 21. Sálmur.

### Um sorgarópid í Rama.

Lagid: Jesús Kristur á krossi var.

Heyrst hefur kall á hædum þar, harma-raust óps og kveinunar, sem spámann

segja nádi, Rakel sorg mikla' í sinni bar, sona missirinn þrádi.

2. Huggast vill ekki' í hørmum sín, hjartad fyllist med ángurs pín, af því hún útgjørt heldur, um burtu dáin børnin sín, bøl þad sorginni veldur.

3. Vid skulum, sál min! um þad eitt, okkur til lærdóms þeinkja greitt, hversu ad herrann sæti, vid sín elskuleg børn sær breytt, bædi' i sorg og medlæti.

4. Víst er holdinu þént med því, þegar þad nýtur sorgafri, gledi og góbra daga, harmkvæli ratq ei vill i, sem ondinni bezt þó haga.

5. Margur þá hreppir medlætid, miskun drottins ei kannast vid, sem øllum allt gott veitir, heldur med vondum synda sid, sjálfan gud titt áreitir.

6. Medlæti þegar gefur gud, gleymir náttúran forblindud, þakklæti gott ad greida, sem hjartans elska hreintrúud, honum á fram ad reida.

7. Ofraust velgeingnin upptendrar, ásýsir hold til metnadar, svo gjafarans gætir eigi,

drottins velgjørning vanbrúkar, sem vitnast á hefndar degi.

8. Optlega gud sin børnin blíd, bera lætur þvi sorgarstríd, med ángist, eymd og trega, trúudum jafnan líknar lýd, þó lýist marga vega.

9. Af þvi skalt, sál min! þekkja þú, þig hefur drottinn kæra nú, og hýrt i hófi agar, þolgód umber, med þýdri trú, þótt komi hryggdar-dagar.

10. Sorgadi Rakel sona deyd, sína klagandi ángurs neyd, hún vill ei huggast láta, ef sømu hittir harma leid, hóflega skaltu gráta.

11. Børn og ástvini gud þér gaf, gjøra má hann þvi sjálfur af, sem honum ljúfast líkar, þolinmædina helga haf, hún bætir raunir slíkar.

12. Svo var Jobs fordum sinni vart, þó sitt afkvæmi' og annad margt, med sorgum missa nædi, sem drottins barna er til art, allt leid i þolinmædi.

13. Ei skaltu þeinkja' ad útgjørt sé, um ástmenni þín þó burt deye, frá heimsins

vistar-veru, signad hreppa þeir sælgæte, hjá sjálfum drottni eru.

14. Von hins rángláta úti er, þá æsin vesøl þverra fer, en réttlátra' i blessun blifur, herrann til lífs þá heim færer, og hørmúngar burtu drifur.

15. Syrg því ekki þó sannhelgum, sé kippt i burt frá eymdunum, drottinn þeim gladværd gefur, med øllum sínum útvøldum, i andlegu skarti vefur.

16. Ei hefur nokkurt auga séd, einginn fyrri þad heyra réd, né þeinkja þar um kunni, hvilik vegsemd þeim verdur léd, þá vakna i upprisunni.

17. Endast þá hryggd og harma kvein, heyrist ei sorgar raustin nein, á hædum himna ranna, útvalda hendir ekkert mein, ord drottins þetta sanna.

18. O Jesú! gef mér gledi þá, nær gánga verd eg heimi frá, á sizta æsikveldi, ad mætti' eg sælan finna og fá, søgnud i himnaveldi! Amen.

## 22. Sálmur.

### Um dauda Heródis.

Lagid: Gæzku guds vér prísum.

En þá Heródes hafdi, hardrádur kann- ad deyd, eingill guds ei vid tafdi, apt- ur um sama skeid, í draumi birtist brátt, Jósep, og sagdi sídan: svein med þér taka frídan, og módur hans einnig átt.

2. Í Israels land skalt leita, lýdn- um egypzka frá, hédan til heljar reita, horfinn er óvin sá, sem eptir sækja vann, lífinu svein ad svipta, svo gjørdi drottinn typta, argan illrædismann.

3. Sál min! hér merkja máttu, makt guds og réttlæte, er hann á ýmsa háttu, augljósa lætur ské, med hørdum hefndar sid, á þeim, sem illa breyta, og eptir straffinu leita, en kannast ei verk sín vid.

4. Dauda Heródes hreppti, herfilegan um sid, ríkisins rádum slepptí, sem rómverskum fékk af lýd, ádur til umdæmis, en stjórnadi allt of illa, opt gjørdi fridnum spilla, med hrekkvísi hardsinnis.

5. Drottins óvinum øllum, eins líka gánga kann, ólukkunnar áføllum, yfir þá steypir hann, þegar þeir þeinkja sízt, en guðhræddir gleði hljóta, góðrar umbunar njóta, til huggunar hryggdin snýst.

6. Ef þér er illt í sinni, athugavert er það, hefnd drottins hafðu' í minni, hugsandi' um kvalastað, hvar þú úttaka átt, laun fyrir ljóta hrekki, láttu þig villa ekki, svikulan Satans mátt.

7. Fýsi þig gott að gera, guði til þægðar nú, lát þér upp-vakning vera, verðlaun sem hreppir þú, af drottins dýrri náð, sem kaupið góðum greiðir, og guðhræddra sorgum eyðir; þau bið eg rækir ráð.

8. Allar athafnir þínar, álitur guð og sér, harðar hótanir sínar, hrína lætur á þér, ef þú hans gæzku geð, misbrúkar vís-vitandi, með vondu glæpa standi; það hefur þrávalt skéð.

9. Þótt að guðs þolinmæði, þirmi um stund og tíð, seinna hans brennur bræði, ef bót finnst ei hjá lýð, min sál! það mundu

rétt, ávøxt ef eingan gefur, øxina drottinn hefur, til róta trénu sett.

10. Eikin sem á sér hafdi, ei nema blød-in tóm, þá frelsarinn fædu krafdi, fékk hann réttlætis dóm, aldrei skal ávøxtur, út af þér optar spretta; eptir hans talid þetta, vard hún visnud og þur.

11. Hætt er vid margar megi, minn drott-inn! eikur sjá, er á uppskeru degi, úrskurd-inn sama fá, af því ad offein var, idrun og umbót sanna, en idkun sífeld glæpanna, allt til endalyktar.

12. Eins og þá øxin snidur, eikur og skógartré, hefnd drottins hart ad ridur, hon-um sem frestade, lifernis lagfæring, þá einn gud eptir þetta, med ógn og reidi þétta, sid-asta setur þing.

13. Margur vill lifa leingi, vid lystir ver-aldar, og þótt hann frekan feingi, frest sem Ninivitar, aldrei samt idrast vann, þángad til dapur daudi, dró hann heimsins frá audi, nær því sem naudugan.

14. Vel þó i fyrstu falli, fyrir þeim ill-gjørnu, eingirn þad audnu kalli, því opt ad

hendingu, yfir þá ógæfan, snögglega' í hasti hrapar, og hrekkvísum aldur skapar, hendir þad margan mann.

15. Valt er, mín sál! ad sofa, í syndum og uggleysi, hvilíkan daudans dofa, djöfulsins hrekkvísi, setur í sinnis reit, hjá þeim, sem þekkir hreina, þjónustu drottins eina, gjörir þó verr en veit.

16. Sá lifir bezt í blóma, sem býst vid ár og síd, hrekkvísum heims ósóma, hafna, svo daudans tíd, óvörum ekki hann, grípi í gjördum syndum, og galinskap holdsins blindum, sál mín! haf setning þann.

17. Gef mér ljúfi lausnari! ad lifa sparlega hér, svo burt í fridi fari, nær fjörid loksins þver, guds barna gridastad, önd minni unntu' ad finna, innleid til byggda þinna, amen! mín ósk er þad! Amen!

## 23. Sálmur.

### Um heimreisu Jóseps úr Egyptalandi.

Lagid: Lof saung gudi mey María.

Jósep tók med sér barnid brátt, og brúdur dyggdagjarna, heimleidis aptur

hélt í átt, til hérads Israels barna, þar fregnir hann, heyrdi med sann, ad Heródis arfi réttur, Arkelaús á illsku fús, yfir Júda var settur.

2. Þess vegna ekki þordi hann, þángad hælis ad leita, drottinn honum í draumi vann, dýra rádstøfun veita sneri því ört, eptir þad gjørt, í Galílea sveitir, sér fékk med hrad, þann samastad, sem ad Nazaret heitir.

3. Þannig fram kom hin forna spá, sem finnst í helgum greinum, Nazaræus hann nefnast á. Nú i manndómi hreinum, heiløgum þó, honum i bjó, háleitur guddóms kraptur, því skal, min sál! þánkinn og mál, til þessa hverfa aptur.

4. Nazaræus guds son er sá, sannur herra og drottinn, blómlegur kvistur kallast má, af kyni Jesse sprottinn, ber ávøxt hrein, sú blessud grein, betri en aldin-vidur, húnáng draup af, þeim hjálparstaf, huggun og andar fridur.

5. Ádur gud lýd sinn Israel, af Egyptó kallandi, plantadi hann sem víntré vel, vænu

Kanaanslandi; eins Jesús hér, heim aptur fer, (Hóseas þar um sagdi), þad víntréd mætt, sem böl fær bætt, og blessan oss til lagdi.

6. Þú hefur, sál mín! þessu tré, þvegin med skírnar badi, innplantast fast í elskunne, einn gud svo tilskikkadi, hess vegna nú, nefnast áttú, Nazaræus med sóma, ávexti ber, audsýn á þér, andlegan dyggda blóma.

7. Ef ad kvisturinn eingan ber, ávöxt med gróda fljótum, verdur hann skjótt, sem vonlegt er, vidar höggvinn frá rótum, í eldi þá, uppbrennast má, eingin bót finnst vid slíku, guds hjálprædid, mér varni vid, voda straffi þvílíku.

8. Þú skalt og vita ad þirmt var sízt, þeim náttúrlegu kvistum, þegar Júdar med vonzku víst, villtir fordæmdu Kristum, hardlega þá, hefndin féll á, heidnir lýdir þad gjördu, rupludu torg, en breida borg, brutu nidur ad jördu.

9. Ei kann hid rotna aldin-tré, ávöxt gódan ad færa, sértu daudur í syndinne, sízt máttu gudi tæra, frumgróda þeim og frid-

um seim, sem fagrir kvistir bera, gróðurlaus eik, gømul og veik, gagnlaus hlýtur að vera.

10. Eins bið eg drottinn! af þér nú, með auðmýkt vesæll maður, géf að eg sé i sannri trú, sjálfum þér innplantaður, og beri klár, um æfi ár, ávexti guðræknínnar, þar til með pris, mér veitast vis, verðlaunin trúarinnar! Amen!

## 24. Sálmur.

### Um árlega reisu foreldranna Jesú til Jerúsalem.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Árlega Jósep meyu með, til musterisins gánga réð, þegar að páska-hátíð hrein, haldin var eptir laga grein. Guðs dýrðar jafnan gættu mest, gjørðu hvað honum þóknaðest.

2. Á settum tíma til svo bar, tólf ára þegar Jesús var, helgidags-gaungu hófu þá, heimili sínu burtu frá, til Jerúsalem vissan veg, var það siðvenja hátíðleg.

3. Min sála! þar um þeinkjum við, þegar

gud út gaf løgmálid, um Sabbatsdag og helgi-høld, hørd ályktadi' hann syndagjøld, sem koma áttu yfir þá, er ordi guds sér kasta frá.

4. Sá sem er herra hvíldardags, hefur þér lént til vinnulags, sex vikudaga virka hér, en valdi einn til dýrdar sér, þennan vanhelga ekki átt, annars mætir þú hefndum brátt.

5. Hátídisdaga ræktu rétt, sem rádsmenn kristninnar hafa sett, drottinn útheimtir af þér þá, ástarged sitt ad minnast á, láttu því ekki liggja' i hlé, lofgjørd, þakklæti og gudrækne.

6. Gledileg jóla hátíd hér, herrans fædingu kunngjører, er því skyldugt ad offrir þú, andlegri lofgjørd, sál min! nú, fyrir gæzkunnar gódsemd þá, guds sonur manndóm tók sig á.

7. Ønnur stórhátíd er sú víst, sem upprisinn bodar Jesúm Krist, sigurhøfdingja sønnum þá, sigurhrós andlegt færa má, vann hann djøful og vitis neyd, valdinu svipti bitran deyd.

8. Mundu og hátid þridju þá, þegar guds sonur himnum frá, heilagan anda sendi sinn, sanntrúadra í hjörtun inn, stærstu hátidir þessar þrjár, þér ber ad halda sérhvert ár.

9. Adrar smærri sem árlega, inn falla medal kristinna, med jöfnum heidri akta átt, andlega' i drottni gjör þér kátt, ordi guds hlýd, og heyr þú vel, helga sidvenju þetta tel.

10. Minnstu á David, drottins mann, daglega þar vid gladdist hann, ad mega gánga guds í hús, gjörandi þakkir dyggdafús; allt eins þú líka sinnud sért, sál min! og þessa minnug vert.

11. En þú skalt géfa gaum ad því, þó gángir viljug kirkju í, synd er mikil ad sitja þar, ef sálin ekki þeinkir par, eptir guds dýrd og ordum hans, sem útgánga' af munni kénnimanns.

12. Gángir þú fram í gáleysi, sem gleymanlegur heyrari, áttu skilid ad ord guds þad er ádur numdir í helgum stad, dæmi þig loks á degi þeim, nær drottins reidi straffar heim.

13. Lifir af braudi sálin sizt, sína hefur hún næring víst, af ordi guds og anda hans,

sem ávaxtast í hjarta manns, ef soddan vokva sjúga má, saðningu nóga sær hún þá.

14. Opt og tíðum með munni mann, margur drottinn nálægjast kann, en hjartað þó og hugurinn, hvarflar ei til guðs nokkurt sinn, slíkum hálfvolgum hræsnurum, herrann vill skirpa af vörunum.

15. Þennan varastu sál mín sið, sé bæði mál og hugskotið, í sannri dýrkun samfara, svoddan rótgróin alvara, guði þrieinum geðjast bezt, gagnar sálunni allra mest.

16. Flapur munnsins og fláráti geð, forsmáir guð og hatar með, hann vill að þú sért hreinn og klár, honum þjónandi síð og ár, einskæra miskun öllum hann, af einlægu hjarta veita kann.

17. Játa má eg það Jesú minn! jeg er stórlega vangætinn, því verr, að hjartað ofkalt er, opt þegar raustin hreifir sér, vona eg drottinn þó á þig, þinn anda láttu verma mig! Amen.

## 25. Sálmur.

**Um það, þegar foreldrarnir søknudu barnsins á leidinni.**

Lagid: Skaparinn stjarna, herra hreinn.

En sem þeir dagar enda fá, aptur heimleidis geingu þá, í Jerúsalem eptir var, úngur Jesús og dvaldi þar.

2. Hans foreldrar þar hugdu' ei ad, heldur fulltrúa meintu það, hann mundi selskaps hópnum hjá, honum þó litid bæri á.

3. Mætur Jósep og María medal frænda og kunníngja, leitudu hans, sem líklegt var, lundin beggja því hryggdist þar.

4. Aflokid høfdu eins dags ferd, ádur en sú var leitin gerd, þegar hann fundu ekki enn, aptur til borgar reistu senn.

5. Heidarlegt dæmi hafa þar, hverjir gudhræddir foreldrar, afkvæmi sín ad annast rétt, útheimtir soddan hjóna stétt.

6. Yfir veraldar fagurt frón, fyrstu setti

gud ektahjón, mælti fyrir hans mildin þá, ad margfaldast skyldu jørdu á.

7. Afkvæmis-rækt og elsku þvi, inn gaf hann þeirra hjørtun i, adgæzlu, vakt og varatekt, vist heimtir drottinn af þeim frekt.

8. Hinar skinlausu skepnurnar, med skikkun sinnar tegundar, leggja ei stóra vanrækt vid, vakta heldur sitt afkvæmid.

9. Miklu ædri er madurinn, menntadur vel med skilninginn, honum ei ætla minna má, mikid vardar um skyldu þá.

10. Gódum foreldrum ángur er, nær illa børnin hegda sér, gódri skikkan ef gæta ad, gledi tvøfaldrar aflar þad.

11. Fadirinn tárum flýtur i, fordjørfun barnsins veldur þvi, módirin sáran grætur gód, geingur þad svo hjá hverri þjód.

12. David harmar sinn dáinn son, deya vill fyrir Absalon; Jakob særist af sorga pin, ef sinn skal missa Benjamin.

13. Sunamitis med sáran mód, sútir bar fyrir einka jód, lagdi i kjøltu sjúkan svein, syrgja gjørdi hans dauda mein.

14. Skedi hér eins og á minnst var, ást-

rikir Jesú foreldrar, soknudu barnsins sorg-bitin, af sútum fylltist hugurinn.

15. Mikil var sorg ad missa hann, sem missir allan bæta kann, harmar þvi likir heim sóktu, helgan Jósep og Maríu.

16. Hendi þig sama, sál min! nú, sorg-full ad Jesú leita þú, sá sem hann missir, missir allt, manna fulltingid reynist valt.

17. Þegar ad loksins þú skalt hér, þræl-dóms skilin vid tjaldbúder, gánga veg allrar veraldar, veldu Jesúm til samferdar.

18. Sú er hin mesta sálar neyd, ad sakna hans á þeirri leid, og óvíst hvort þinn and-inn kann, aptur snúa og finna hann.

19. Á þeirri stundu eg þig bid, ei mína sálu skiljir vid, drottinn Jesú! sem dóst á tré, daudinn er þá minn ábate! Amen.

## 26. Sálmur.

### Um eptirleitina eptir Jesú.

Med sama lag.

Minnumst vid, sál min! enn þar á, sem ádur fyrri hvarf eg frá: ljúfir foreldrar

lausnarans, leitudu strax þá sakna hans,

2. Þeinktu hann væri' á veginum, hjá vinafólki og náfrændum, góðum selskap því vanur var, vissu það og hans foreldrar.

3. Láttu ei barn þitt venjast við, vondan selskap og hrekkja sið, af því spillist hinn úngi mann, ódygðd og glæpi nema kann.

4. Gudhræddra sið og samfélag, sjá til hann stundi nótt og dag, mikid gott hann þar oðlast af, athugasemd á þessu haf.

5. Þótt hann med góðum gódur sé, gudlausra manna hrekkvíse, til vonzku tíðum venur hann, sem velur sér selskap þvílikan.

6. Siðaspillir er samtal illt, son minn! ef þetta forðast villt, góðan munnsafnad ven þig við, varastu last og baktalið.

7. Hid vonda tíðum audnæmt er, inn í hjartað það smeigir sér, þeir eldri gánga girndum í, glæpist barnið á agni því.

8. Náttúran holds er næsta treg, að nema sannan lífsins veg, gódur vani þó gjørla kann, að gjøra' úngdóminn siðprúðan.

9. Undan að gánga ættu þeir, sem árum

safnad hafa meir, af þeim lærir hinn úngi þá, allmikid þetta stoda má.

10. Sidferdi gott ef barn þitt ber, blessunar drottins aflar sér, gódrar skikkunar gud er hann, gæta skyldi þess sérhver mann.

11. Lángt um betur en lærdómsmennt, ljós eptirdæmin geta kennt, hvad augun líta optast nær, inngáng í barnsins hjarta fær.

12. Hafist þú lastlegt eitthvad ad, ei láttu barnid horfa' á þad, gott þegar nokkud idja á, adferdina þad láttu sjá.

13. Ei veiztu nema eitthvert sinn, ávöxt færi sá sidvaninn, og barnid eptir breyti því, sem bezt er þinu fari í.

14. Nær drottins ord er haft um hönd, helzt séu börnin til þess vönd, ad hlýda lestur helgan á, hugsa kunna þau um þad þá.

15. Andi drottins sem ordinu, ásamt byggir í hjartanu, þó einginn þetta merki mann, mennta hid innra barnid kann.

16. Af því spretta þeir ávexter, sem ytra gjarnan hreifa sér, andinn smámsaman eykur vid, inn til þess barn er fullordid.

17. Í þeirra hóp sem þennan sid, þrá-

valli kostgæfnir halda vid, viljandi barn þitt vera lát, vandlega haf á þessu gát.

18. Barnid ef tídum venst þar vid, verdur þad loks ad hversdags sid, gudhræddra selskap sídan í, sannlega máttu leita' ad því.

19. Bid eg, Jesú! ad børnin mín, barnæsku mættu njóta þín, sannra guds barna samneyti, sé þeim til reidu' í dýrdinni! Amen.

## 27. Sálmur.

### Um samtal Krists vid hina skriptlærdu í musterinu.

Lagid: Hæsti gud herra mildi.

Eptir þrjá daga dýran, drottinn í musteri, fundu med huga hýran, hans blessud ástmenni, fedranna mitt á milli, mál þeirra hlýddi á, vondra þó flokk ei fylli, fróda spurdi med snilli, hver mann þad heyrdi' og sá.

2. Undrudust allir þetta, ad dádust svørum hans; eingir þó eptir frétta, alvizku frelsarans, meintu hann mundi vera, madur en ekki gud, spurningum skýrt úr skera, skilning ekki til bera; því vizkan var vantrúud.

3. Frelsarinn fræddist eigi, þó fróða spyrði hann; held eg víst meina megi, muni hann tíma þann, spurt hafa' að spádómsgreinum, sem spjalla ritningar, Messía út af einum, og hans guðdómi hreinum, hvern fólk ei þekkti þar.

4. Til þessa lítið lögðu, lærifeðurnir þá, timburmanns-son hann sögðu, seinna ef minnst var á, lasta hans guðdóm gjörðu, gáfu það lýðnum inn, með þrjózku hjarta hörðu, hann væri einn á jörðu, falsmanna foringinn.

5. Skriptirnar þótt þeir þekkti, það var samt undravert, ofmjög þá blindnin blekkti, blíðum guðs syni þvert, jafnan af-neita náðu, næsta tregir í lund, síns andar gagns ei gáðu, góða kenning forsmáðu, nýttu ei náðarstund.

6. Af því að ekki hafði, á bækur Jesús lært, alþýðan andsvars krafði, í spursmál gat það fært, honum hvaðan að kæmi, hyggindi vizkunnar, upp á hans ágætt næmi, ei þóttust finna dæmi, hjá öðrum einshattar

7. Optar en einu sinni, uppfræddi Jesús

þá, lagdi æ minni' og minni, múgurinn trú þar á, hneixludust hryggilega, á herranum Kristó þar, med hjartans heimsku trega, hæddu hann marga vega, og áreittu all-stadar.

8. Jóhannes fyrst þá frœddi, um frels-arann Jesúm Krist, út af ritningum rœddi, rödd hans mjøg vidfrægdist; réttlætis veg nam vísa, vildu ei Júdar þó, eptir hans ordum hnýsa, upp á móti þeim risa, þrjózkan í þánka bjó.

9. Hér trú eg herrann geingi, á hólm vid Júda fyrst, strid þó ei stædi leingi, strax af því vitnadist, hann mundi hina vinna, ef herti nokkud á, móti þeim for-svar finna, fláttskap þeirra ei sinna, sem gudspjøll greina frá.

10. Trúa vil eg ótregur, tign þinni Jesú klár! eingetinn, elskulegur, ertu guds sonur hár, fødursins fagur ljómi, fridasti mønn-um hjá, þinn pris á hædum hljómi, í heim-inum lof þitt rómi, allt þad sem anda má! Amen.

## 28. Sálmur.

Um samtal Kristí og Maríu.

Lagid: Seldi Pilatus saklausan.

Þá hjónin son guds sáu rétt, sitja í kirkju inni, hnikkti þeim vid, en lund vard létt, því lærdóms stétt, æfdi med idkuninni.

2. María sagdi svo til hans: son minn! því gjørdir þetta? vid høfum leitad lángt til sanns, med dapran dans, til þín ei feingum frétta.

3. Helgum Jósep og hýrri frú, herrann réd andsvar veita: hverju gegnir þid hafid nú, med holla trú, harmandi gjørt mín leita?

4. Vissud þid ei mér vera bar, í verki opinberu, þeim hlutum frekt til fyllíngar, og framkvæmdar, fødur míns sem ad eru?

5. Adur Maria ángur hlaut, úngan Jesúm þreyjandi, en nú gladværdar yndis naut, unnin var þraut, aptur sá hann lifandi.

6. Guds barna kjør þad eru enn, optlega'

i veröldinni, eina stund mædir ángisten, og adra senn, aptur er glatt i sinni.

7. Deyda og lifga drottinn kann, daglega þannig breytir, um litinn tima hryggir hann, og hrellir mann, huggun eptir á veitir.

8. Réttlát Maria reyndi þad, raunamód ávitadi, ástkæran son i sögdum stad, fyrir sinn verknad, sig Jesús forsvaradi.

9. Hans var ad sönnu módir mey, módurrétt hafa vildi, hlýdninnar gætti' og hér vid nei, hann sagdi ei, hitt kvad i meira gildi.

10. Mönnunum drottinn meiri er, i makt og krapti hreinum, honum þvi framar hlýda ber, þad höfum vér, heyrt i ritningargreinum.

11. Af sinum födur sendur var, son guds i ást og mildi, fyrir þvi einu allstadar, umsorgun bar, erindid rekast skyldi.

12. Þad var ad leggja lýdnum braut, til lifs og dýrdar vista, þess vegna Kristur hörmúng hlaut, og harda þraut, i heiminum vard ad gista.

13. Fødursins vilja framkvæmde, frelsadi menn á jördu, yfirvann deyd og eilift spé, andvana' á tré, aflauk þvi stridi hördu.

14. Ekki Maria undirstóð, orðin er Jesús sagði, heldur þau svörin greina góð, sem geymslu sjóð, gullvæg í hjarta lagði.

15. Peinkt hefur eptir þessu fyrst, í þeli vizku-ríku, þar til ritning, sem ræddi' um Krist, vel vitnaðist, og verða tók raun á slíku.

16. Spádómar allir upp á hann opinberuðust síðar, svo hreina þýðing heyra vann, hver kristinn mann, um heimsins byggðir víðar.

17. Fyrst þú, minn Jesú! fullkominn, föðursins gjörðir vilja, aldrei lát holdi inngróinn, illviljann minn, okkar á millum skilja! Amen.

## 29. Sálmur.

### Um hlýðni og undirgefni Jesú við sína foreldra.

Lagið: Sá frjáls við lögmál fæddur er.

Ferðaðist Jesús þá með þeim, þaðan á samri stundu, öll til Nazaret héldu heim, holla nágranna fundu.

2. Foreldrum hlýðinn frelsarinn, fannst þar í öllum greinum, auglýsti

sig hans audsveipnin, med ástar þela hreinum.

3. Lærid af Jesú börnin blid, blessunar er þad merki, heidrid foreldra þæg og þýd, þad i ordi sem verki.

4. Hann sem ad allra ydar er, einn gud og fadir lika, foreldrum gjördist hlýdinn hér, hugsid um audmýkt slika.

5. Gud i manndómi mönnum var, med mannlega skikkan bezta, undirgefinn svo ekkert þar, upp á kunni ad bresta.

6. Sinum födur á himnum hann, hlýdugur gjörast nádi, viljugur kom, og viljugan, viljandi fólkid hrjádi.

7. Fyrir þig gjördist blessad barn, barn guds svo verda mættir, sýndi med hlýdni hlýdnis gjarn, ad hlýdinn vera ættir.

8. O! hversu fékk þig audmýktin, ó Jesú nidurlækkad, svo nidurlægdan þrælinn þinn, þú feingir aptur hækkad.

9. Fyrir hans skuld þig, barn mitt bid, bid þú mér einninn medur, ad hlýdid lærir svoddan sid, sidur sá drottinn gledur.

10. Allt svo leingi sem gud er gud, góð-

um hlutum rádandi, æ verdur hlýdnin umbunud, øllum drottni þjónandi.

11. Allt svo leingi þú barn ert barn, i barnsminni skal þér vera, ad hann vill láta þig hjálpargjarn, hlýdninnar laun uppskera.

12. Þinum foreldrum um þú ert, elsku' og hlýdni skyldugur, alls sem þau hafa gott þér gert, gjarnan sértu minnugur.

13. Jardneskum manni eingum átt, ødrum betur ad unna, i øllu þvi sem megna mátt, minnstu þeim þakkir kunna.

14. Hafa þau þig i fyrstu fætt, fæddan daglega alid, alinn á hollum kosti klætt, klæddan til mennta valid.

15. Af þeirra holdi hold ert þú, med heyrn og sjón lifandi, þin sál af sálu þeirra nú, þrávallt er fast hángandi.

16. Ahánga þvi i elskunne, áttu fødur og módur, lidsemd og styrk þeim láta' i té, ljúfur og vidmótsgódur.

17. I minni jafnan þér sé þvi, sú þúnga hefndar pina, sem óhlýdnir rata eiga i, ef afrækja skyldu sina.

18. Vanblessunar þad orsøk er, eptirkost

mun og veita, ef við foreldra þína, þér, þú gjörir illa breyta.

19. Lát þér Absalons óhlýðne, aldrei úr minni líða, þegar hann rænti frið og fé, föður sinn Davíð blíða.

20. Þá gángvaranum geisi hast, gjörði til stríðs að hleypa, hans í trénu varð hárið fast, henti hann dauðans sneypa.

21. Tobiæ dæmin dygða fróð, daglega' í þánka festu, hreppti hann laun af guði góð, gæfu og lukku beztu.

22. Faðir ljósanna eins mun enn, af elsku við þig gera, ef þú við guð og yfirmenn, ástundar hlýðinn vera.

23. Gef þú í allra barna brjóst, blíði Jesú! þinn anda, svo við foreldra leynt og ljóst, læri í hlýðni standa! Amen.

## 30. Sálmur.

### Um daglegan þroska og framför barnsins Jesú.

Lagið: Til þín heilagi herra guð.

Eins dásamlega og upphaf tókst, á hans manndómi sönnum, aldur og vizka Jesú jókst, jafnt því hjá guði' og mönnum, náðarhylli, sem guðspjalls grein, glögglega vottar skýr og hrein, leið að embættis-önnum.

2. Andstyggð er það, ef aldurinn, eykst með lastanna greinum, frekast og verður fullkominn, í slærð og glæpum einum, ángrast

drottinn og hatar hann, sem hefur lifnad hvilíkan, elskast hann ekki' af neinum.

3. Ágætt er hitt, ef aldurinn, eykst í dygdunum hreinum, frægur verdur og fullkominn, med fremd í öllum greinum, einn gud fagnar og elskar þann, sem æfir lifnad hvilíkan, þó hatist af illum einum.

4. Aldur og vizka á einum senn, allvel til samans skarta, ó, Jesú! láttu úngdómenn, ødlast þitt ljósid bjarta, svo vit med árum vaxi þeim, sem vanvitugir komu í heim, og ødlist hyggid hjarta.

5. Vegna þess æskan afræker, opt og tídum ad læra, og hégómlega hegdar sér, hatar uppfræding skæra, ellin í bernsku á fram dregst, óvirding á þann gamla legst, sem heimskuna hefur kæra.

6. Skuli hærurnar heidur fá, og haldast í miklu gyldi, æskan hlýtur ad audgast þá, af því sem seinna vildi, prýda med dosin elliár, ef aldurinn kann ad verda hár, úngur þad skynja skyldi.

7. Opt er gømlum til yndis þad, sem ádur læra gádi, hinu er honum ángur ad, sem úngur forsóma nádi, aldradur heimskur ei fær pris, er þeim gráhærda sneypan vís, ef fer ad rasandi rádi.

8. En sá hyggni þó úngur sé, æru þresaldrar nýtur, vegsemd, hylli og vinfeinge, af vitrum mønnum hlýtur, sinna foreldra

sæmd er hann, sjálfur kallast einn gæfumann, ef það ei af sér brýtur.

9. Er þó hin mesta audna sú, æsku mannsins í heimi, ástar drottins ad njóta nú, svo nádin ad honum streymi, eins og rennandi uppspretta, sem af þvær kámid bernsklega, betra' er það brenndum seimi.

10. Oss fá það gudspjalls ordin kennt, sem ádur geta nádi, ad prýtt hafi Jesúm þetta þrent, þroski med visdómsrádi, hjá gudi og mønnum nádin neyt, þó nyti þess lítt ad Júda sveit, þá hann var hér á ládi.

11. Uppvøxtur hans og æskan klár, med ádursøgdum hætti, þannig framleid um þrjátíu ár, þar til hann sitt embætti, berlega' á jørdu byrjad fékk, og blessadur hérud kring um gekk, sýnandi sitt almætti.

12. Hefur þú, Jesú! barnid blítt, barnæsku þannig mína, med blessudum dyggda blóma prýdt, bid eg nú gæzku þína, úngdóms verdugleik allan þinn, audmýkt, hlýdni og blódskraptinn, ætíd lát á mér hrína.

13. Fyrir þín úngdóms árin blíd, úngdóms brestunum mínum, gleymdu nú hjartans gæzkan þýd, gódvilja eptir þínum, sú nýja fæding nýa hér, nád og styrkleika veiti mér, af klárum krapti sínum.

14. Þóknist gudi ad gjøra mig, gráan af ellihárum, til þín elskan mín ástúdlig, andvarpa' eg heitt med tárum, drottinn

aldradi daganna, sem dálitill komst á jørdina, styrk mig á aldurs árum.

15. Framar vil eg þig bidja bert, barnid Jesú ástkæra! barna minna þú bródir sért, blessan virdist þeim færa, bernsku sáfrædis frá þeim tak, fús yfir þeirra sálum vak, gudsótta lát þau læra.

16. Hef eg um stundir sinni' og sál, svalad ad vilja sínum, hljómi mitt búid barna mál, blitt fyrir eyrum þínum, þennan skattpening skyldugan, skoda, Jesú! og medtak hann, goldinn af munni mínum.

17. Veldi, kraptur, lof, vegsemd, pris, virding hátignarinnar, æra og makt, þér æ sé vis, unnustinn sálar minnar! um vøtn og grundir veraldar, vidfrægist nafn þitt allstadar, i kóngstjórn kristni þinnar! Amen!

---

Þessi útgáfa **Fædíngarsálmanna** er lesin saman vid eina hina elztu útgáfu þeirra, sem prentud var á Hólum i Hjaltadal, 1751, og vida lagfærd eptir henni.

---

Seljast óinnbundnir á 20 sk. silfurs.

